„Ekkert nema álögur og kúgun," hélt hann áfram. „Kirkjan vill kúga okkur, eins og páfinn á dögum Salómons. Þarna lágu peningarnir í hrúgum, og prestarnir voru svo feitir, að meðhjálpararnir þurftu að styðja þá upp í stólinn . . . . Mikið skínandi blað er Heimskringla. Við alþýðan stæðum varnarlaus, ef við hefðum ekki það ágætisblað og þann ágætismann, til að verja okkur fyrir prestunum."

„Þér hefði verið nær að koma heim og gefa gripunum, heldur en að vera drekka suður á bæjum. Það hefst af fjandans hótelinu, að enginn fer svo bæjarleið, að hann drekki ekki frá sér þessa litlu vitglóru, sem guð gaf honum."

„Ásdís mín góð!" sagði Jón með hátíðlegri röddu. „Þetta er svo alvarlegt málefni, að þú mátt ekki taka því með léttúð. Þú kannske skilur það ekki, en ég get útlistað það allt fyrir þér. Það er nefnilega, að prestarnir hafa risið upp, og vilja láta okkur borga tíund til prestanna ofan á allan sveitarskattinn, skólaskattinn, tollskattinn, vegaskattinn, þistlaskattinn og fylkisskattinn. Svo á maður að fara að borga tíund, — heyrirðu það? — tíunda partinn af öllu, sem við eigum, til prestanna, svo að þeir geti átt góða daga og fitnað. Það stendur allt hérna í blaðinu og þetta á að viðgangast í frjálsu landi. En Heimskringla tekur heldur en ekki í hnakkann á þeim — veður um ritninguna eins og prestur, og setur þá alveg á stampinn. Blaðið er alþýðunnar hjálp og vörn, — talar hraustlega og djarfmannlega, alveg eftir mínu geði."

„Já, það er jafnmikil hjálp og vörn fyrir alþýðuna, eins og þú ert hjálp og vörn fyrir mig og heimilið."

„Öðrum megin standa prestarnir," hélt hann áfram, án þess að svara hnífilyrðum Ásdísar — „öðrum megin standa prestarnir og kirkjan, hinum megin stendur alþýðan og Heimskringla. Kirkjan vill láta okkur gjalda tíund, við viljum enga tíund. Kirkjan vill gjöra okkur ófrjálsa, við viljum vera frjálsir. Kirkjan vill kúga okkur, við viljum . . . ."

„Hvaða tíund ertu alltaf að staglast á?"

„Prestarnir vilja nefnilega, að við borgum tíund af búinu hérna til prests og kirkju."

„Það mundi hvorki gjöra okkur fátæk eða prestana ríka."

„Við eigum nefnilega að borga tíund. Skilurðu það? Við eigum að láta tíundu hverja kú og tíunda hvern kálf ofan í prestana.“

„Nú jæja. Ég held, að guð hafi þá gefið okkur meira, en þó að við gjörðum það.“

„Hvað svo sem skyldi það vera?“

„Hann hefir skapað himinn og jörð.“

„Það kemur mér ekki við.“

„Hann viðheldur öllu með sínu almætti.“

„Hann gjörir það sjálfum sér í hag, og ekki mun Jón á Strympu gjalda honum tíund þess vegna.“

„Hann hefir gefið þér líf og heilsu.“

„Já, það er kallað svo. En hafi hann gjört það, þá fer hann ekki að ganga eftir borgun fyrir það hjá mér fremur en öðrum.“

„Hann lætur rigna yfir ráðvanda og óráðvanda.“

„Ég væri ekki fjarri, að þægjast eitthvað fyrir regnið, ef það væri þá nokkurt vit í því, hvernig hann hagar því. En þarna er engin stjórn á. Það rignir kannske, þegar maður þarf þess ekkert við. Mannstu ekki þegar stóri þrumuskúrinn kom ofan í skrælþurra töðuna okkar í sumar?“

„Hann lætur sína sól upp renna yfir vonda og góða.“

„Sólin verður að vera á himninum hvort sem er, eins og allt annað í náttúrunni.“

„Hann verndar okkur fyrir hættum og slysum.“

„Ég álít, að hver maður verði að passa sig sjálfur.“

„Hann sendi sinn son í heiminn til þess að frelsa okkur.“

„Afgamlar kerlingarkreddur! — Maður má ekki festa hugann svo við þetta búhnauk, að maður ekki lesi blöðin og ræði um þýðingarmestu mál nútímans. Við það breytast skoðanir manna á þessu og öðru. Þú ættir, Ásdís mín, að lesa Heimskringlu, og hlusta á hann Jóa, — slíkur þó líka sjór, — þá kynnir þú að fræðast um Krist. Þið kvenfólkið fylgist of lítið með tímanum.“

„Já,“ sagði Ásdís stuttlega. „Við höfum lítinn tíma til að lesa blöð — sérstaklega þær, sem eiga ónytjunga fyrir menn, og verða að vinna bæði fyrir þeim og sjálfum sér.“

Jón var ekki að fást um slíka smámuni. — En þó hann

hefði allan hugann við tíundarmálið, þá gleymdi hann ekki matnum. Hann færði sig frá borðinu, settist niður á stólskrifli út við gluggann, og byrjaði svo á nýju umtalsefni. —

„Hvað líður annars kaffinu hjá þér? Ég hefi ekki smakkað mat síðan á hádegi í dag."

Ásdís stóð þreytulega á fætur, tók könnuna ofan af hillu, og fór að búa kaffið til.

„Það vildi ég Jón," sagði hún lágt, „að þú værir dálítið meira að manni en þú ert. Ég er farin að þreytast á, að vinna á við okkur bæði, gigtin ætlar stundum alveg að gjöra út af við mig. Þú ferð og flakkar hús úr húsi, talar við misendismenn, og lærir ljótt, þangað til svo er komið, að þú ert farinn að afneita guði. Svo ert þú hvað eftir annað farinn að koma heim drukkinn, og standa upp í hárinu á mér, og þó verð ég að vera bæði úti og inni, og gjöra verk okkar beggja, og sjá þér svo fyrir matnum, þegar þú dragnast heim."

„Ég er ekki að afneita guði fyrir því, þótt ég berjist á móti þessari tíund og kúgun frá kirkju og prestum. Skyldi þeir svo sem ekki geta unnið fyrir sér, eins og ég? En svona vilja þeir hafa það. Fátæklingarnir eiga að þræla baki brotnu til þess að þeir geti átt góða daga og fitnað."

„Okkur væri nær að gefa dálítið, svo sem tíunda part af gripunum okkar, guðs ríki til eflingar. Það er líka allt gjöf frá honum."

„Og ég segi það," sagði Jón og brýndi nú röddina, „að á meðan ég er húsbóndi, skal ekki svo mikið sem dollars virði af Strympubúinu fara í tíund. Við erum frjálsir menn í frjálsu landi, og enginn prestur skal kúga tíund út af mér."

Ásdís gegndi þessu engu. Hún sá að það var þýðingarlaust, að ræða þetta mál við Jón. Hún færði honum kaffið hans, og þegar hann hafði lokið því, stóð hann upp, tók Heimskringlu og fór inn í setustofuna og kastaði sér þar niður á bekk. Hann ætlaði að fræðast betur um þessa tíund, og fara síðan yfir til Gríms nágranna síns, og ræða málið við hann.

Hann las stundarkorn, en lengi var það ekki. Hann var lúinn af ganginum, og kaffið virtist fremur deyfa en lífga

hann. Blaðið féll úr hendi hans á gólfið, og höndin datt máttlaus niður með bekknum. Augnalokin urðu þyngri og þyngri, og loks hætti hann alveg að opna þau. Honum fannst Ásdís koma inn og kasta yfir sig ábreiðu, svo yfirbugaði svefninn hann, og hann vissi um stund hvorki í þennan heim né annan.

## 2.

### *Svarti haninn og reikningurinn frá himnaríki*

Hann vissi ekki hvað lengi hann lá þar á bekknum, en þegar hann rankaði við sér, sá hann að komið var kvöld, því hálfdimmt var í húsinu. Hurðin á setustofunni var lokuð, og engin hreyfing heyrðist. Ásdís hafði annað hvort lagt sig fyrir eða gengið út.

Hann lá og góndi upp í loftið. Þá fannst honum allt í einu, að hann ekki vera einsamall, og þó vissi hann, að enginn gat verið þar inni. Hann lyfti upp höfðinu og leit í kringum sig. Það var sem hann grunaði. Stóri svarti haninn þeirra hjóna, uppáhaldsdjásnið hennar Ásdísar, stóð þar hreyfingarlaus á miðju gólfi og horfði á hann. Jóni hafði alltaf verið illa við þennan hana, og hefði verið búinn að stúta honum og éta hann, ef hann hefði þorað það fyrir konunni.

Haninn réttist upp og baðaði út vængjunum. Svo teygði hann fram hálsinn og galaði — það var nú líka aldrei roka, sem hann þeytti út úr sér. Þetta var þó allt eðlilegt. En sem heiðvirður og siðaður hani, þá hefði hann átt að láta þar staðar numið, og sitja á strák sínum, þegar húsbóndinn sjálfur var viðstaddur.

Hann réttist upp og baðaði vængjunum í annað sinn. Svo teygði hann sig og útnaði út, teygði sig hærra og hærra, þangað til hausinn náði undir loft í húsinu. Lappirnar urðu full þrjú fet á hæð eða meira, hrikalegar og stórskornar, með stóru, hörðu hreistri. Hornsporarnir á þeim voru allt að því fet á lengd, kolsvartir og harðir eins og járn. Fiðrið var orðið að svartri kápu, sem féll yfir þessa ófreskju frá hálsi og ofan á fætur. Vængirnir voru horfnir, en fram úr búknum komu tveir langir armar, hreistraðir eins og

fæturnir, og þar, sem þumalfingurnir áttu að vera, voru svört horn, alveg eins og á fótum hans. Stélið var orðið að löngum hala, sem ófreskjan dró á eftir sér.

Jón var lémagna af hræðslu við að sjá þennan ára. Hann gat hvorki hreyft sig eða hljóðað upp. Hann langaði til að grúfa sig ofan í fötin, en gat það ekki; þessi ári beitti á hann einhverju ómótstæðilegu segulafli, svo hann varð að horfa beint í augu hans. Og slík þó líka augu, lítil og illileg, og gul eins og í ketti. Nefið var langt og íbjúgt, hakan nærri engin, og ennið strokið aftur á miðjan haus.

Og því lengur sem Jón horfði á þennan ófögnuð, því betur sannfærðist hann um, hver þetta var. Það var hvorki maður eða hani, eða nokkur önnur lifandi vera. Það var myrkrahöfðinginn sjálfur, djöfullinn, sem stóð þar fyrir framan hann. Fæturnir með hörðu og svörtu klónum og stórgerða hreistrinu, bogna rófan, íbjúga nefið og gulu augun, afturslegna ennið, og yfirleitt skrokklagið allt, — það stóð nákvæmlega heima við þá hugmynd, sem Jón hafði gjört sér um þann herra. Það var allt alveg eins og átti að vera.

Þessi ári teygði nú hausinn til hliðar, leit niður og ávarpaði Jón, og honum fannst röddin eins og hrafnsgarg einhvers staðar úti á þekju:

„Þú þekkir mig ekki, Jón, eða hvað?“

„Ónei,“ sagði Jón. „Ekki svo, að ég þori að nefna yður. Mér fannst áðan um stund, að þér vera svarti haninn minn, en mig hlýtur að hafa dreymt þá vitleysu.“

„Hefir þú aldrei heyrt getið um lögmannafélagið *Lúcifer, Belzibub & Co.?*“

„Jú, það held ég. Maður kannast við þau nöfn úr biblíunni. Kannske ég hafi þann heiður að tala við sjálfan . . . .“

„Ég er Lúcifer.“

„Þetta grunaði mig, og vertu velkominn. Þú ert nýr gestur á Strympu. Jú, ég held að maður hafi heyrt þín getið. Þú ert frægur í gegnum alla ritninguna, frægur í sálmum og sögu. Þú átt góða og trygga vini, þar sem prestarnir eru. Þeir minnast oft á þig, þó að margir haldi því fram, að þú sért ekki til.“

„Mér er engin þægð í umtali prestanna.“

„Auðvitað ekki. Þú ert of mikill maður til þess, að kæra þig um gullhamraslátt þeirra. — Hvaða félag sagðist þú vera, með leyfi?“

„Lögmannafélag. Lúcifer, Belzibub & Co., lögmenn og skjalaritarar og skuldheimtumenn fyrir himnaríki.“

„Ertu ennþá til heimilis í sama stað — þarna neðra, þar sem þú hefir verið að undanförnu?“

„Ég er alls staðar og hvergi.“

Nú varð nokkur þögn. Jón lá hreyfingarlaus eins og undir fargi. Hann gat talað, en talið þreytti hann. En eitt var það, sem hann skildi ekkert í, hvaða erindi að Lúcifer gat átt þangað. Það var ekkert til á Strympu, hvorki kvikt né dautt, sem líkindi væru til, að hann vildi ná í, nema ef það væri . . . .“

„Yðar tign,“ tók hann aftur til máls, „yðar tign mun vera komin hingað til að sækja konuna mína.“

Honum sýndist svarti hamurinn allur ýfast, og skottið sveiflaðist, eins og þegar köttur reiðist.

„Nei!“ sagði Lúcifer með grimmd. „Ég er ekki kominn til að sækja Ásdísi þína. Það skass skal aldrei koma inn fyrir dyr hjá mér. Ég hefi sem lögmaður áríðandi erindi að reka. Ég á að innkalla skuld hjá þér.“

„Þú munt vera að innkalla fyrir sveitina. Ég býst við, að þeir kalli það svo, herrarnir, að ég skuldi skattinn.“

„Ekki varðar mig um það. Skuldarðu nokkrum öðrum?“

„Ég skulda eitthvert lítilræði í verzluninni.“

„Varðar ekkert um það. Skuldarðu fleirum?“

„Nei.“

„Ertu í engri skuld við hann, er býr þarna uppi — sem ekki má nefna — sem býr uppi í himninum?“

„Þú átt við, hvort ég sé í skuld við guð?“

„Já.“

„Ekki kannast ég við það. Fyrir hvað ætti ég að skulda honum?“

„Það veizt þú sjálfur. Hvað hefir þú þegið af honum?“

„Ekki neitt. Ég er ekkert upp á hann kominn. Ef mig vanhagar um smávegis, fæ ég það hjá kaupmanninum út í reikninginn minn.“

„Gott er það Jón. Lögmannafélag vort hefir tekið að sér, að innkalla skuld hjá þér. Hérna er reikningurinn.“

Og hann stakk vinstri krumlunni inn undir svörtu kápuna, og dró þaðan gulan bréfastranga, tók úr honum eitt blað, og rétti Jóni. Það var orðið dimmt, en hann þurfti ekki dagsbirtu með, til að lesa skjalið, því hver stafur leiftraði með sjálflýsandi birtu. Þetta var þá skuldakrafa, og kemur hér orðrétt:

Skrifstofa Gabríels. Hornið á Heil. anda og St. Páls str.
Himnaríki, 20. febrúar 1905

*Herra Jón Jónsson, bóndi á Strympu,*

í viðskiptareikningi við

GUÐ Á HIMNUM

| | | Úttekið | Innlagt |
|---|---|---|---|
| 1. jan. 1905 | Ógreiddar skuldir frá fyrri árum | 970053.31 | |
| | Fyrir að gefa þér líf og heilsu | 183.11 | |
| | Fyrir að skapa þig sem skynsemi gædda veru, en láta þig ekki verða dýr .......... | 200.00 | |
| | Fyrir að halda þér við vitið allt árið .......... | 1.25 | |
| | Fyrir 18 snjóhríðardaga .......... | 18.00 | |
| | Fyrir 27 rigningardaga yfir land þitt .......... | 154.05 | |
| | Fyrir að gefa þér góða konu .......... | 1000.00 | |
| | Fyrir 5 þrumuskúra til að hreinsa loftið .......... | 50.00 | |
| | Fyrir að vaka yfir þér og öllu, sem þér tilheyrir, hvíldarlaust nætur og daga í 365 sólarhringa .......... | 730.00 | |
| | Fyrir að halda við lífið miljónum fiska í vatninu handa þér til að velja úr .......... | 160.00 | |
| | Fyrir að láta grös og tré spretta, fyrir að halda andrúmsloftinu heilnæmu, fyrir að láta sól og tungl skína á himninum .......... | 200.00 | |
| | Loforð í safnaðarsjóð (óborgað) | | 2.00 |
| | Samskot við guðsþjónustu .......... | | 10 |
| | Skuld þín við guð almáttugan .......... | | 972747.62 |
| | | 972749.72 | 972749.72 |

N. B. Lögmannafélagið Lúcifer, Belzibub & Co. hafa fulla heimild til, að innkalla ofangreinda skuld samkvæmt lögum.

Jón missti skjalið á gólfið. Óstjórnlegur hrollur og kvíði greip hann, svo að hann gat hvorki hugsað eða talað. Hann var í skuld við guð, — á því var enginn vafi; hann sá það nú, að allt þetta, sem upp var talið, var frá honum komið, og að hann hafði ekkert til að borga með, þegar gengið var eftir skuldinni.

„Nú, hvað segirðu um þetta, Jón?“

„Æ! — hvað ætli ég segi?“

„Viðurkennir þú, að reikningurinn sé réttur?“ —

„Náðugi Lúcifer,“ sagði Jón kjökrandi. — „Ég skil ekkert í þessu. Ég vissi ekki til, að ég skuldaði neitt, nema lítilsháttar við verzlunina. Þér eruð víst að gjöra að gamni yðar.“

„Ekkert gaman!“ sagði Lúcifer byrstur. — „Reikninginn verður þú að borga, áður en ég fer héðan úr húsinu.“

„Það er mér alveg ómögulegt. Hvernig á ég, — bláfátækur auminginn, — að borga annað eins. Ég á ekkert til — ekkert. Þetta nær heldur ekki nokkurri átt, að setja mér hátt verð fyrir snjó og rigningu og sólskin. Það á enginn maður með að selja það, því það kemur allt af sjálfu sér — er allt í náttúrunni.“

„Rétt segir þú, Jón,“ sagði Lúcifer, „að engum *manni* er frjálst að selja slíkt. En ekki þarft þú að vera sá þöngulhaus, að halda að það komi af sjálfu sér. Í öllum alheiminum eru aðeins tvær verur, sem eru svo voldugar, að geta framleitt allt, sem reikningur þinn telur upp. Það er *ég* og *hann,* sem sendir reikninginn. Kannast þú við að hafa veitt móttöku öllu, sem upp er talið?“

„Ég veit það ekki. En þó svo væri, þá álít ég rangt, að láta mig borga fyrir það.“

„Hvor okkar álítur þú, að sé líklegri til að senda þér allar þessar velgjörðir, ég eða hann?“

Jóni kom í hug, að líklegri væri guð til þess, en þorði ekki að segja það.

„Kannske að þú haldir, að allir þessir velgjörningar séu frá mér?“

„Ég veit ekki, herra,“ sagði Jón lágt.

„Ég held síður. Hvers vegna ætti ég að sýna þér velgjörðir? Þú lendir hjá mér hvort sem er, — hvar annars stað-

ar ættu slíkir þöngulhausar að lenda. Og þó ekki væri, þá léti ég mér ekki koma til hugar, að gjöra lykkju á leið mína til að ná í þig. Það er *hann,* sem alltaf er að dekra við þessa ónytjunga, ganga á eftir ykkur með grasið í skónum, og ausa yfir ykkur velgjörningum ár eftir ár, sem þið hvorki kannist við eða launið.“

„Og eru þá allir í sömu súpunni? Eigum við bændurnir þá allir að borga guði þessar skuldir?“

„Þeir hafa einkennilegt bókhald þar efra. Sumir fá uppgjöf á skuldum sínum fyrir eitthvert smáræði. Aðrir eru umliðnir von og úr viti. En stundum kemur það fyrir, þegar einhver lubbinn á í hlut, eins og þú, sem alltaf þiggur velgjörðir og ekkert launar, — að það fýkur í *hann,* og þá sendir hann okkur þessa reikninga til innköllunar.“

„En eru það þá bara við bændurnir, sem eigum að borga? Kannske kaupmaðurinn og presturinn eigi að sleppa? Það er heldur réttlæti í því, að presturinn fái tekjurnar, en taki engan þátt í að borga. Eða kaupmaðurinn, sem alltaf græðir á okkur bændunum. Nú er fiskur og smér fallið í verði, en sykur og hveiti að stíga upp. Þér finnst kannske rétt, að . . . .“

„Hugsaðu um sjálfan þig, en ekki aðra. — Viðurkennir þú reikninginn?“

„En því ert þú að innkalla þetta, Ég hélt að þið væruð engir vinir.“

„Hann á gott af okkur skilið, því margan syndara hefir hann sent niður til okkar. Svo höfum við okkar laun, — fimmtu hverja sál af þeim, sem ekki viðurkenna reikninginn. Viðurkennir þú, að skuld þín við hann sé eins og reikningurinn sýnir?“

„Ekki gjöri ég það. Hafi ég þegið þetta sem upp er talið, þá fer ég ekki að borga fyrir það, fremur en aðrir.“

„Ef þú ekki borgar skuldina, þá tek ég þig sjálfan heldur en ekkert, þú ert sá fimmti.“

Jóni fannst ætla að líða yfir sig við að heyra þetta. Hann lá þegjandi og horfði á Lúcifer. Og nú flaug honum aftur í hug tíundin, sem hann hafði verið svo vondur út af rétt áður. Hann fór að bera það saman við þessa skulda-

kröfu, og hann fann, að þar var langt bil á milli, Þarna var heimtað hæsta verð fyrir hvert smáræði, — líf og heilsu, hita og kulda, rigningu og sólskin, — en hitt var þó ekki nema tíundi partur af eignum hans, og það var ekki víst að það þyrfti allt að borgast í peningum. Hver veit nema að hann gæti látið grip við og við. Og fyrst þetta var nú virkilega svona, að allt sem hann átti, var gefið af guði, og skuldin við hann var svona ógurleg, og að hann gat ekki einu sinni dregið fisk úr vatninu, nema að skoða það sem gjöf, eða þá fært til skuldar í reikningnum, — þá þótti honum tíundarkrafan talsvert sanngjörn. Prestarnir hlutu líka að vera því talsvert kunnugri en Lúcifer, hvað var rétt í þeim sökum. Lúcifer var líka vís til að hafa logið reikningnum upp, til að ná undir sig búinu á Strympu.

„Heyrðu!" sagði hann, og var nú talsvert hressari en áður. „Ég mótmæli alveg þessum reikningi. Prestarnir segja, að við þurfum ekki að borga guði nema tíunda partinn af eigum okkar, og það gjöri ég, því það er rétt og sanngjarnt. Þeir sögðu það á prenti um daginn, og þeir vita hvað þeir segja, því að þeir eru fulltrúar guðs á jarðríki. Tíundina borga ég, en ekki meira. Það er allt sem guð á hjá mér, og það dugar mér til sáluhjálpar."

„Við skulum láta sáluhjálpina eiga sig, en tala um málefnið. Viðurkennir þú þennan reikning? Kannast þú við, að hafa þegið af honum allt, sem hér er upp talið?"

„Það er eins og ég sagði áðan, að ég skulda engum neitt, nema skattinn og kaupmanninum eitthvert smáræði. En skuldar ekki Ásdís neitt? Mér þætti gaman að sjá reikning inn hennar."

„Ég hefi hann ekki. En ég heyrði þá tala um, að hún skuldaði lítið eða ekkert."

„Það er skrítið! Með hverju skyldi hún hafa borgað?"

„Þeir hafa undarlegt bókhald þarna efra, eins og ég sagði áðan. Ef þú til dæmis gjörir fátækum gott — þótt ekki sé nema vatn að drekka, og gjörir það vegna *hans,* sem ég ekki má nefna — þá eru þeir vísir til, að strika út svo og svo stórar upphæðir af skuldum ykkar. Við höfum tapað mörgum duglegum syndara á þann hátt, en getum ekkert

sagt, því hann er sterkari en við. Þó að Ásdís sé skass, þá er hún alltaf að lauma hinu og þessu til aumingjanna, og þeir skrifa það allt niður þar efra. — Mannstu þegar hún fór einsömul í hríðarveðri, til að vaka yfir henni Margréti á Læk, meðan hún lá?“

„Ég held það. Hún skildi mig eftir einan og matarlausan í húsinu.“

„Og vissir þú, þegar hún sendi ketið og jarðeplin til hans Árna við Tjörnina, þegar Árni var allslaus?“

Nei. Það vissi Jón ekki. Þetta voru nýjar fréttir. Ásdís að láta mat burtu af heimilinu, og hann ekki vita neitt um það. Hann ásetti sér, að láta ekki slíka óhæfu viðgangast framar. Hann skyldi sýna konu sinni, að hann væri húsbóndi á heimilinu, en ekki hún.

„Fyrir þetta og annað eins,“ hélt Lúcifer áfram, „eru þeir í standi til að gefa upp svo og svo mikið. Þú ert víst, sem betur fer, ekki að gefa fátækum eigur þínar, eða greiða fyrir þeim á nokkurn hátt. Ekki sést í reikningnum annað en þessir tveir skitnu dalir til safnaðarins, sem þú hefir svikist um að borga.“

Nú datt Jóni gott ráð í hug.

„Heyrðu!“ sagði hann. „Hvað viltu kvitta mig fyrir miklu af skuldinni, ef ég læt þig hafa fimm bushel af jarðeplum og tvö hundruð pund af góðu keti? Þú getur selt það með gróða, eða gefið það til fátækra, ef þér sýnist. Þú ættir að gefa vel fyrir ketið, því það er af ungum grip, og hækkar óðum í verði.“

En Lúcifer hristi sig, og varð svo voðalegur, að hjartað hljóp upp í hálsinn á Jóni af hræðslu.

„Sagði ég þér ekki, þöngulrottan þín, að það yrði að vera gefið til fátækra vegna *Hans,* annars væri það einskis virði? Og nú spyr ég þig í seinasta sinni: Viltu kannast við, að þú skuldir þetta, og viðurkenna reikninginn?“

En Jón sat við sinn keip. Hann sagði, að það gæti vel verið, að skuldin væri rétt að því leyti, að allt, sem upp væri talið, væri frá Guði komið. En hann hefði aldrei beðið guð um neinar gjafir, hann væri ekki upp á gjafir kominn, hvorki frá honum né öðrum, og hann ætlaði ekki að fara að

borga það, sem hann hefði aldrei beðið um. Nóg væru útgjöldin samt. Þrevetran uxa hefði hann látið í kaupmanninn, skatturinn væri óborgaður, kaffi og sykur að stíga upp, og fiskur lítils virði. Prestarnir væru nú farnir að heimta tíund, og það væri þó heldur vit í því. Það væri þó munur, að gefa tíundu hverja kú eða tíundu hverja kind sér til sáluhjálpar, eða að láta taka af sér allar reiturnar. Prestarnir væru guði handgengnir, og þeir vissu eins vel og Lúcifer, hvað rétt væri — með allri virðingu fyrir honum. Tíundina skyldi hann borga til prestsins, eins og heiðarlegur maður, en ekki baun meira. Þeir mættu senda sig til andskotans þess vegna.

„Jæja, Jón minn,“ sagði Lúcifer. „Við tölum þá ekki meira um þetta. Það er seint fyrir þig að hæla tíundinni nú, því mér heyrðist ekki betur en þú værir að írafárast út af henni áður en ég kom inn. Þú ert sá fimmti, og þú kemur heim með mér. Það er raunar ekki mikill fengur í þér, en það bætist þó ein sál í hópinn, og það kann að mega kveikja upp með þér, þegar kólnar, ef við sósum þig vel í ólíu áður.“

Og djöfullinn beygði sig niður og lagði krumlurnar utan um Jón, þar sem hann lá á bekknum. Skottið lengdist um helming eða meira og margvafðist utan um fætur hans eins og mjór og óslítandi þvengur. Hann lyftist upp, hærra og hærra. Loftið og þakið á húsinu veittu enga fyrirstöðu; þeir fóru í gegnum það eins og vatn, út í næturmyrkrið og vetrarheljuna. Það átti að vera tungl á loftinu, en það sást hvergi, og stjörnurnar voru horfnar svo gjörsamlega, að í öllu himinhvolfinu sást ekki ein einstök stjarna skína. Aldrei á ævi sinni hafði Jón verið staddur í öðru eins niðamyrkri; það reis í kringum hann á allar hliðar eins og þykkur veggur, og hann sló ósjálfrátt út höndunum, til að grípa í eitthvað, en fann ekki neitt, og um leið heyrði hann hlátur, sem honum fannst lýsa bæði grimmd og illgirni. Það var Lúcifer, sem var að hlakka yfir því, að hafa hremmt í klær sínar enn þá eina glataða mannssál.

Í dauðans ofboði og skelfingu gjörði Jón hverja tilraunina á fætur annari til að losna. Hann brauzt um og barði á báðar hliðar, en allt var það árangurslaust, — krumlur Lúcifers læstust fastar að honum en áður, og skottið herti

enn meira að fótum hans. Svo hætti hann hræddur og máttvana og lá kyrr. Áfram þutu þeir — það var eins og þeir væru alltaf að falla, neðar og neðar í einhvern botnlausan og glórulausan óskapnað. Hann reyndi að ákalla guð um hjálp, en segulmagn hins illa anda var svo mikið, að hann gat ekki myndað nokkra sjálfstæða hugsun um guð, og svo fann hann glöggt, að guð var þar hvergi nálægur. Hann var kominn út úr ríki hans, og ofurseldur valdi og makt myrkranna. Hann var orðinn flæktur í neti Lúcifers, og kominn á fleygiferð til helvítis. Hann fann það að sönnu glöggt, að það var allt honum sjálfum að kenna, en það var ofseint að sjá það nú, — ekkert um að gjöra annað en sökkva — sökkva, — skyldi þá aldrei koma botn á þessu helmyrkurs hyldýpi, — þar til er komið væri á staðinn innan um djöfla og erkiára og illa anda? Og þar átti hann að vera — en hvað lengi? Engan tiltekinn árafjölda, heldur alltaf — endalaust; kveljast þar með öðrum útskúfuðum og glötuðum jarðarbúum um allar ókomnar aldir, lengur en hugur hans gat hugsað. Ef til vill — hefði hann lifað betur, verið meira að manni, og hjálpað konunni betur, borgað tíundina og líknað fátækum, og beðið guð innilega, þá máske — en það var of seint að sjá það nú.

Svo fór hann að hugsa um drenginn sinn, eina barnið, sem hann hafði eignast um ævina. Hann mundi alltaf eftir hvað honum hafði þótt skemmtilegt að lifa þessi sex ár, sem hann var hjá honum, og hvað sorgin og söknuðurinn hafði lagst þungt á hann, þegar samverutími þeirra var á enda. Eftir fráfall hans gjörði hann sér aðeins þá hugmynd um annað líf, að fá að sjá hann og vera þar, sem hann væri. Þegar hann var orðinn hreifur af víni, þá var hann vanur að segja, að Ásdís sín mætti fara til fjandans, en drenginn sinn ætlaði hann að hitta hjá guði. Honum fannst, að þetta einkabarn sitt mundi hljóta að koma til sín í andlátinu, vefja litlu handleggjunum um hálsinn, eins og hann var vanur að gjöra, og svo ætlaði hann að fljúga gegnum loftið og láta drenginn leiðbeina sér fram fyrir guð, og hann vonaði, að fá að vera nálægt honum; því hvar sem drengurinn var, þar hlaut himnaríki að vera. Helvíti sjálft með allar sínar ógnanir og alla sína djöfla hlaut að verða að him-

neskum sælustað, ef hann væri þar fyrir. En svo fann hann glöggt, að ekki þurfti hann að búast við honum þar. Hann var nú sjálfur í myrkri dauðans, og þá og þegar kominn í helvíti, og þar var úti öll von. Hann hafði þó liðið nógu margt og mikið illt í lífinu, til þess að hann hefði átt skilið, að vera hjá drengnum, eða að minnsta kosti að fá að sjá hann einu sinni áður, en hann sykki fyrir fullt og allt niður í hyldýpið. Hann var auðvitað engill hjá guði, en hann var þó sonur hans, og hafði alltaf þótt vænt um hann. Rétt áður en hann gaf upp öndina, hafði hann sagt: „Pabbi, lúrðu hjá mér." Og hann gjörði það; lagði handlegginn yfir hann, drengurinn reyndi að brosa framan í hann og — dó. Og sá eini ljósglampi, sem síðan hafði stöðugt lifað í sálu hans, var sá, að hann mundi einhvern tíma og einhvers staðar fá að sjá drenginn aftur, þegar hann væri dauður — og Ásdís komin til fjandans.

Niður — niður, — hann sökk með fljúgandi ferð. Hann var fyrir löngu orðinn vonlaus, — hættur að brjótast um, og lá hreyfingarlaus með aftur augun. Magn hins illa anda var að fá meira og meira vald yfir honum, og hann fór að sjá ofsjónir í myrkrinu; honum sýndust bláraúðar eldingar þjóta fram og aftur, og við þeirra ímyndaða glampa sá hann mora af lifandi ófreskjum allt í kringum sig. Hann hlaut að vera farinn að nálgast helvíti. Jæja, það varð þá svo að vera.

„Drottinn — Jesús!" sagði hann og kjökraði eins og útgrátið barn. „Fyrirgefðu mér, hvað ég hefi verið slæmur og vanþakklátur. — Fyrirgefðu mér allar mínar syndir, og lofaðu mér að sjá sem snöggvast drenginn minn, áður en ég sekk í stað hinna fordæmdu."

Honum fundust járngreipar Lúcifers linast, og skottið lykkjaðist af fótum hans. Það vaknaði hjá honum von á ný, og hann fór að brjótast um sem hamstola maður. Hann losnaði meira og meira, og afl hins illa anda minnkaði að sama skapi. Honum fannst hann aftur vera kominn heim í hús sitt á Strympu og vera að fást þar við einhvern óvætt, og loks var það svarti haninn, sem hann átti í baráttu við. Hann reiddi upp hnefann til að slá hann, en laust það heljarhögg

í gólfið, að hann sárkenndi til, opnaði augun og sá, að hann lá á gólfinu fyrir framan bekkinn og Ásdís stóð þar yfir honum.

## 3.

### *Breyttar skoðanir*

„Hver ósköp eru komin yfir þig, Jón?“ sagði hún. „Ég heyrði einhver ólæti og umbrot, þegar ég kom úr fjósinu, og þá liggur þú á gólfinu, berð frá þér með höndum og fótum, og ert ýmist að hljóða eða skæla. Dreymdi þig svona illa, eða hvað?“

Jón svaraði engu. Hann lá þar hreyfingarlaus á gólfinu, yfirkominn og máttvana, en glaður yfir að vera enn í heimi hinna lifenda. Einhver ósýnilegur kraftur hafði hrifið hann úr myrkri undirdjúpsins, svo hann mætti enn þá um stund lifa og njóta þeirra gæða, sem guð sendi honum, en hann hvorki vildi þakka né launa.

Þarna lá hann nú á gólfinu í húsinu sínu. Hann var bráðlifandi; á því var enginn vafi. Þar var ekkert ónáttúrlegt á ferðum; allt eins og átti að vera, og Ásdís stóð yfir honum.

„Reyndu að standa á fætur, Jón.“

En Jón hreyfði sig ekki. Hann var svo lémagna, að hann gat ekki staðið upp. Hann andvarpaði og sagði:

„Æ, guð hjálpi mér.“

Og svo lá hann hreyfingarlaus.

„Þú ert eitthvað lasinn. Kannske þú hafir meitt þig við að detta á gólfið? Stattu upp og legðu þig heldur á bekkinn.“

Og hún laut niður og tók undir axlir hans, eins og Lúcifer gjörði, og með hjálp hennar stóð hann loksins á fætur.

„Æ, guð minn góður hjálpi mér,“ sagði hann aftur mæðulega, og lagðist út af á bekkinn.

„Helduðu að þú gætir ekki borðað, ef ég færi þér kvöldskattinn?“

„Æ, ég hefi ekki matarlyst.“

Nú þóttist Ásdís viss um, að hann væri veikur. Þegar Jón neitaði mat, þá var hann ekki heilbrigður.

„Ætli þú gætir ekki borðað steikt ket og kartöflur?“

Nei, það gat Jón ekki. Það mundi auka við stóru skuldina, og til þess mátti hann ekki hugsa.

„En ef ég færi þér soðinn hvítfisk?“

Ekki heldur það. Hann var viss um, að það yrði allt sett í sama reikninginn.

„En ef ég helli á gott kaffi?“

Nei, kaffi vildi Jón ekki.

„En ef ég færi þér soðin egg?“

Hann ætlaði að neita, en þá rankaði hann við því, að honum hafði hvorki verið færð til skuldar hæns eða egg. Hann sá nú hvernig í því lá. Konan hafði alltaf eignað sér þann lið af búinu, og það var vafalaust fært inn í hennar reikning. Honum var óhætt að éta á hennar kostnað, og hvort hún borgaði eða borgaði ekki, kom honum ekki við.

„Kannske að ég reyni að nærast á eggjum, ef þú hefir þau.“

Eggin komu óðara.

„Hænurnar mínar verpa vel,“ sagði Ásdís. „Í dag fékk ég fimm egg.“

„Já,“ sagði Jón, fremur við sjálfan sig en hana. „Eggin koma frá guði, eins og allt annað, sem gott er.“

Þetta tal Jóns var svo ólíkt því, sem hann talaði venjulega, að konan hans fór að óttast, að hann væri með óráði.

„Þú ert dauðveikur, Jón,“ sagði hún. „Þú skelfur og hefir hálfgert óráð. Farðu að hátta strax, og vittu hvort þér skánar þá ekki.“

„Ásdís mín,“ sagði hann nokkru seinna, eftir að hann var háttaður. „Við erum í óttalegri skuld við guð.“

„Ég ætla að gefa þér aconíti. Það er ofsahiti í þér. Reyndu svo að fara að sofa.“

„Mikill skelfilegur reikningur! — Mikil skelfileg skuld!“ sagði hann lágt, eins og hann væri að tala við sjálfan sig. „Sólskinið — rigningin — snjórinn — lífið — skepnurnar — fiskurinn — Ásdís — allt frá guði — allt — — — allt.“

„Guð hjálpi mér,“ sagði Ásdís. „Þar fer hann aftur að tala óráð, og ég ein í húsinu. — Vertu alveg kyrr,“ sagði hún

byrst, „eða ég bind þig niður í rúmið. Þú veizt að ég hefi í öllum höndum við þig.“

„Við ættum að borga tíundina, Ásdís mín. Prestarnir segja, að hún sé nægileg okkur til sáluhjálpar, og þeir eru vitrir menn — þeir vita allt betur en — en Lúcifer. Búið okkar hérna er allt frá guði, og það er ekki nema rétt, að hann fái tíundina. Við getum látið tvo gripi — við megum vel missa þá.“

„Svo ætla ég að þvo ennið á þér úr arnicu áburði, og leggja volgan bakstur við höfuðið á þér.“

„Ég vil að presturinn sé látinn vita það strax, að við ætlum að borga tíundina — vel og kristilega.“

„Svo legg ég volgan léreftsdúk við brjóstið á þér, til að verja, að í þig hlaupi kalda, og gef þér aftur inn, áður en þú sofnar.“

„Mér fannst hann Lúcifer koma hér inn til mín og . . . ,“

„Sussu! Þú ert dauðveikur maður og með óráði. Þegiðu eins og steinn, og reyndu að fara að sofa.“

Jón gegndi þessu. Hann sá að það var þýðingarlaust, að ræða málið frekar í það skiptið. Hann var líka allur eitthvað lémagna og af sér genginn, og fann, að nú átti bezt við sig að hvílast. En þó gat hann ekki stillt sig um, að spyrja konu sína einnar spurningar.

„Ásdís mín!“ sagði hann, „er svarti haninn ennþá í fjósinu?“

„Taktu hérna inntöku af núx, og farðu svo að sofa. Ég lít eftir þér fram eftir nóttunni.“

Hún réði — eins og vant var. Hann lá þar hreyfingarlaus og áhyggjufullur — með arnicu-áburð við ennið, volgan vatnsbakstur við brjóstið, og tvær góðar inntökur af aconíti og núx í maganum.

Og þó var hann alveg heill heilsu.

Hann hafði skipt um skoðanir í tíundarmálinu, — ekkert annað.

# Góðar taugar

## I.

*"Night is the time for crime and darkest deeds and it is then that wild thoughts enter our brain."*

Nótt, dimm, köld og eyðileg, hvíldi yfir einum af hinum mörgu fjörðum, er skerast inn í austurströnd Íslands. Hin daufa, draugalega glæta, er hið níu nátta gamla tungl hafði varpað yfir fjörðinn og kauptúnið, var um það bil að hverfa, því tunglið var að ganga á bak við himinháan fjallshnjúk, sem reis upp í suðvestri, rétt á bak við kauptúnið, hulinn snjó ofan í miðjar hlíðar og hélugrár þar fyrir neðan; því nú var komið haust, og þetta var síðasta nóttin í septembermánuði, svo engin furða var þó kalt væri orðið. Hinum megin fjarðarins, andspænis kauptúninu grillti óljóst í nokkur hvítgrá hús, sem stóðu á ströndinni, og á bak við þau aftur í fjöll, — ekkert nema hrjóstrug, há og eyðileg fjöll, sem náðu óslitin svo langt sem augað eygði norður og suður með firðinum.

Ekki svo að skilja, að myrkrið væri svartara eða kuldinn meiri eða útsýnið eyðilegra á þessum eina firði, heldur en á öðrum fjörðum þar nálægt; því fór fjarri. Myrkrið var alls staðar jafnsvart, og alls staðar blés sami kuldanæðingurinn — kaldari en nokkru sinni áður um sumarið, rétt eins og hann væri að minna mann á, að blessað bjarta, næturlausa íslenzka sumarið væri nú liðið; en eyðilegur, langur og dimmur heimskautsvetur væri í nánd.

Nótt! Hvað skiljum vér við það orð? Það að sólin er horfin, dagurinn liðinn, og myrkur komið yfir láð og lög. Það, að vinnutími vor er á enda, og vér eigum að hvílast og sofa og safna nýjum kröftum. Það, að vald ljóssins er horfið, en veldi myrkranna orðið ríkjandi í þess stað. Það, að allar Skottur og allir Lallar og allir Mórar, sem um margar aldir hafa verið átrúnaðargoð og hálfgerðir fulltrúar þjóðar vorrar, eru nú komnir á kreik og farnir að reika um fornar

stöðvar, og máske að líta eftir, hvernig hinir fulltrúarnir, sem þjóðin virðist ekki trúa á, leysi sín skylduverk af hendi.

Á daginn, þegar ljósið hefir veldissprotann, fæst enginn um það, þó hann sé einsamall á ferli úti á víðavangi. Á nóttunni er fáum mikið um það gefið. En þrátt fyrir myrkur næturinnar og allt hið geigvænlega, sem því fylgir, þá verðum vér að játa, að mörg nótt hefir svo yfir oss liðið, þegar hinn daglegi hávaði og skarkali var þagnaður, og stjörnurnar skinu í allri sinni dýrð, og ekki bærðist hár á höfði manns, að oss hefir fundizt heimurinn með allri sinni hræsni og öllum sínum freistingum vera fjær oss en áður, en vér standa einu feti nær hinu tignarlega og guðlega í tilverunni — einu feti nær himninum.

En þessi síðasta nótt í septembermánuði var ekki þannig, að hún gæti vakið hjá manni nokkrar göfugar hugsanir. Að minnsta kosti fannst ekki manninum það, sem kraup niður við stóra steininn uppi í fjallshlíðinni. Hann renndi augunum flóttalega út í myrkrið, eins og hann ætti óvina von úr öllum áttum; stóð síðan upp og gekk skjögrandi nokkra faðma í þá áttina, sem alfaravegurinn lá, sneri síðan aftur og settist niður hjá steininum.

„Ég get það ekki," hugsaði hann; „mér er það ómögulegt. Ég er sjálfsagt jafn huglaus og ég er illgjarn. Það er eins og einhver hvísli því að mér, að hann liggi þarna, og rísi aldrei á fætur af sjálfsdáðum. En hvað andlit hans sýndist hvítt og nábleikt, þegar tunglið skein á það á götunni. Nú get ég skilið, hvernig Gyðingum hafi verið innan brjósts, þegar þeir báðu fjöllin að hrynja yfir sig og hálsana að hylja sig. Betur að ég væri djúpt grafinn undir steini þessum og nafn mitt gleymt að eilífu. Ég finn að ég er, eins og Kain, landflótta og flakkandi á jörðinni. Það er allt í aðdáanlegu samræmi við líf mitt að undanförnu, og sýnir, að fóstri minn hefir verið spakmáll, þegar hann sagði, að ekkert gott væri í mér, og skollinn mundi taka mig, því guð vildi ekki eiga mig. Það er satt, sem meistari Jón segir, að heiptin er eitt andskotans reiðarslag. Ef ég hefði ekki orðið viti mínu fjær af heiptinni, þá hefði ég aldrei slegið hann. Og sjálfsagt mundi ævi mín öll önnur, ef ég hefði

lært að stjórna geði mínu. Anna sagði í fyrradag, að ég væri svo skapillur, að ómögulegt væri að eiga við mig, og svo væri ég sífullur.“ — „Jæja,“ sagði hann og tók vínflösku úr vasa sínum og þeytti henni niður í grjótið, „ekki skalt þú framar gera mig að djöfli, eða koma mér til að vinna fleiri ódáðaverkin. Og — hvað ætli liggi nú næst fyrir mér? Sjálfsagt að ég verði tekinn fastur, dreginn fyrir sýslumann og dæmdur sekur, því glæpir dyljast aldrei. Og — hvað svo? Fangelsi, eða hvað? Það afsakar mig ekki neitt, þó ég segi, að ég hafi verið viti mínu fjær af ölæði, það er líka óvíst, hvort ég hefi verið það, því ég man vel eftir öllu, sem gerðist. Það má nærri geta, hvað úr því verður. Ég braut minna, þegar ég sló búðarmennina fyrir að hræða Maríu gömlu, og lá við að ég sætti fangelsi fyrir. Það er eins og ég sé fæddur til að vera öllum til ills. Það er enginn vafi á því, að ævi mín endar með skelfingu, og það er betra að það verði nú en síðar. Fóstra mín sagði mér, að ég væri ekki nema til ills á heimilinu, og úr báðum kaupstöðunum hefi ég verið rekinn fyrir drykkjuslark og óreglu. Og — þó fannst mér ég hafa löngun til að vera heiðarlegur maður, og ég var búinn að einsetja mér að verða það, ef ég næði í Önnu. En svo spilltu vondir menn og djöfullinn því. Hún sagði, að það væri ekkert vit í, að bindast öðrum eins manni og ég væri, og svo rauf hún öll sín heit við mig, en lofaðist *honum*. Hann er líka ríkur, og gullið kaupir allt, jafnvel mannssálina. Og svo verð ég, sveitarómaginn, dáðleysinginn, fyllisvínið að lúta í lægra haldi fyrir honum.

Ævi mín er ekkert nema stríð, endalaust stríð við sjálfan mig og heiminn. Og allt af bíð ég ósigur, hvort heldur ég berst við sjálfan mig eða aðra. Og svo þetta síðasta — og versta. Nú er allt farið. Mannorðið farið, — hafi það nokkurn tíma við mig loðað. Vinirnir farnir. Stúlkan töpuð. Öll von um atvinnu og heiðarlegt líf á enda. Því ætli ég sé að reyna til að lengja þetta vesæla og tilgangslausa líf? Margur maðurinn hefir stytt sér aldur. Hvers vegna geri ég það ekki líka? Ég geri þá tvennt í einu: Losa sjálfan mig úr klóm mannanna og losa mennina við slíkt óargadýr, sem ég er.“

Hann stóð nú upp, skjálfandi af kulda, og gekk ofan

hlíðina og niður að sjónum. Þar settist hann niður á blágrýtisklöpp, sem sjórinn skall upp að, og hélt þar áfram hugleiðingum sínum. Örvæntingin hafði náð fullkomnu valdi yfir honum. Já, hvers vegna að vera lengur að lifa öðru eins lífi og hann hafði lifað, misskilinn af öllum, hæddur og hataður, og með þeirri meðvitund, að nú biði sín ekkert annað en fangelsið.

Hér var dauðinn rétt við fætur hans. Hyldjúpur sjórinn gein þar undir. Bárurnar skullu upp að klöppinni, soguðust frá henni aftur, skullu upp að henni á ný og þeyttu úðanum alla leið upp til hans, eins og þær væru að reyna að draga hann niður í djúpið til sín. Því ekki að lofa þeim það? Hann gat afborið dauðann. Það yrðu að líkindum sárar kvalir fáein augnablik, meðan hann væri að drukkna; svo kæmi dauðinn og þar á eftir —?—

„Já, hvað mundi koma þar á eftir? Honum hafði verið kennt, að til væru tveir staðir: Himnaríki, sem væri sælustaður og biði allra þeirra, er vel hefðu breytt, og helvíti, sem væri heimkynni hinna vondu, og sérstaklega þeirra, er réðu sér sjálfir bana. Hann gerði sér enga von um að komast í himnaríki, jafnvondur og hann væri. En í hinn staðinn vildi hann ekki fara heldur, og svo framarlega sem guð væri til, þá fannst honum það hróplegt ranglæti af honum, að setja sig þangað. Hann hefði liðið nógu mikið illt í heiminum, þó kjör hans yrðu ekki enn verri eftir dauðann.

En svo hafði hann heyrt nokkra unga menntamenn halda fram þeirri skoðun, að ekkert líf væri til eftir þetta; þegar líkaminn dæi, væri og tilveru sálarinnar lokið. Sú skoðun féll honum vel í geð. Dauðinn væri þá ekkert nema svefn, og hann vildi gjarnan sofa og vakna aldrei aftur; sofa og falla í gleymsku að eilífu.

Í norðaustri sá hann langa röst af kolsvörtum skýjabólstrum gægjast upp yfir fjallabrúnirnar og stefna í áttina til sín. Honum sýndist ekki betur, en þeir taka á sig líkingu ýmsra lifandi dýra og jafnvel manna. Sumsstaðar stóðu svartir hausar og herðar upp úr röstinni; þeir mjökuðu sér áfram og upp á við, grúfðu sig stundum ofan að röstinni aftur, og otuðu svo hausunum upp á ný, skiptu um hami,

runnu tveir eða fleiri saman í eitt og skiptu sér sundur aftur; en á undan allri röstinni fór ský-ferlíki mikið og ofan á því sat annað skrímsli, sem líktist fremur manni en nokkru öðru, og hausinn á þessu ferlíki teygðist áfram, þangað til herðarnar bar hærra og hakan virtist renna saman við ferlíkið, sem undir var.

Svo renndi hann huganum yfir þessi tuttugu ár, sem liðin voru af ævi hans. Hann fann þar fátt, sem eftirsjón væri í. Sem sveitarómagi hafði hann verið látinn vinna af öllu megni, og ekki fengið annað í aðra hönd en lélegt viðurværi og vont atlæti. Hinir einu sólskinsblettir í ævi hans voru þær fáu stundir, er hann hafði dvalið einn hjá Önnu. Sérstaklega dvaldi hugur hans við endurminninguna um þann dag, þegar þau voru á ferð ofan af fjalli í svartaþoku. Hún var orðin hrædd og þreytt, og lét hann leiða sig, þangað til þau sáu bæinn. Og honum hafði fundizt, að það væri sú mesta sæla, sem sér gæti hlotnazt, að mega leiða hana í gegnum lífið; þá væri hann alsæll, og gæti orðið svo góður — ósköp góður. Nú voru allir þeir draumar horfnir, og hann sjálfur sem alþekktur óreglu- og ofstopamaður flæmdur og útskúfaður frá henni.

„Hér skal nú endir á verða,“ sagði hann og reis upp. Dökku skýjarastirnar færðust hærra og hærra upp í loftið, og ferlíkin voru orðin fleiri og ægilegri en áður. Honum flaug í hug, að höfðingi myrkranna væri þar á ferð með sveit sína, og mundi ætla að sækja sálu sína. „Bull,“ sagði hann hálflágt, „sálin deyr, þegar líkaminn deyr, og dauðinn er aðeins eilífur svefn. Ég skal þola dauðann eins og *maður*.“ Hann gekk fram á brúnina og kraup þar niður, og horfði ofan í kolsvart hyldýpið. Þá heyrði hann lágt hljóð, eins og barn væri að veina, hinum megin fjarðarins. Hann vissi að það var selur, en þó varð honum svo bilt við, að hann hrökk saman, og datt í hug saga af manni, sem hafði drekkt sér og gengið síðan aftur. Og út úr því fór hann að hugsa um, hvort hann mundi einnig ganga aftur, og verða öllum enn hvimleiðari en áður.

Og allt í einu greip hann sterk og ósjálfráð hræðsla, sem hann aldrei hafði fundið til áður. Honum fannst hann

ómögulega geta verið einn, heldur þurfa hjálp einhvers staðar frá, rétt á meðan hann væri að heyja dauðastríðið. Og þrátt fyrir það, þó hann áður hefði komizt að þeirri föstu niðurstöðu, að sálin lifði ekki lengur en líkaminn, og dauðinn væri ekki annað en eilífur svefn, þá var hann nú ósjálfrátt farinn að biðja guð.

Hann langaði til að biðja hann að vera hjá sér rétt á meðan hann væri að deyja, og reiðast sér ekki, þó hann fyrirfæri sér sjálfur, heldur virða sér til vorkunar, hversu bágt hann hefði átt um ævina. En hann gat ekki fundið hæfileg orð til að ávarpa guð með. Hann byrjaði aftur og aftur: „Guð — guð. Jesús — Jesús;“ lengra komst hann ekki og loks hætti hann við það. „Ég get það ekki,“ sagði hann gremjulega. „Ég hefi aldrei gert það áður, og nú er það um seinan að byrja á því.“

Þá kom honum til hugar, að nokkrum dögum áður hafði hann heyrt Maríu gömlu lesa upphátt í ritningunni. Hann hafði veitt því lítið athygli, sem hún las, en nú mundi hann glöggt, að hann hafði heyrt hana lesa þessa setningu: *„Nú er sál mín óróleg, og hvað skal ég segja? Faðir! frelsa þú mig frá þessari stundu.“* Honum fannst þessi orð eiga svo vel við ástand sitt, að hann hafði þau upp aftur. Svo fleygði hann sér á grúfu niður á klöppina og bað hvað eftir annað: *„Faðir, frelsa þú mig frá þessari stundu.“* Og eftir því sem hann las þau oftar, fannst honum hræðslan hverfa og storminn í sálu hans lægja, og áform hans að fyrirfara sér verða veikara en áður.

Hann lá svo hreyfingarlaus langa stund, hálflamaður af baráttunni. Svo fór hann aftur að íhuga áform sitt. Hann hafði heyrt sagt, að það bæri vott um hreysti og hetjuskap að geta sjálfur ráðið sér bana, en — var sú skoðun rétt? Eins og nú stóð á fyrir honum, fannst honum alveg hið gagnstæða: að það væri fremur vottur um hugleysi og gunguskap, og það þyrfti langtum meiri kjark til að lifa, heldur en að deyja, sérstaklega fyrir hann, sem hefði alla á móti sér, og ætti sér alls staðar ills von. En var nú líka sú skoðun rétt? Hann vissi þó, að María gamla vildi honum vel. Og þó allir, sem þekktu hann, hefðu óbeit á honum, þá

væri heimurinn nógu stór samt. Hví ekki að sýna sig sem hetju, bjóða heiminum byrginn og fara burt, þangað sem enginn þekkti hann? Nú færu hópar af fólki til Ameríku á hverju sumri. Hvers vegna ætti hann ekki að fara líka? Hann hefði oft heyrt, að þangað færi aðeins hið lakasta af þjóðinni, og hann væri nú einmitt af því tæginu. Hvað var að vita nema hann gæti þar byrjað nýtt líf, og orðið heiðarlegur maður. Og þó það tækist nú ekki, þá væri Ameríka svo stór, að þar gæti hann dvalið og dulizt öllum, sem hefðu þekkt hann og hatað áður.

En svo væri verkið, sem hann hefði unnið kveldið áður. Hann ætti eftir að fá sín makleg málagjöld fyrir það. „En hvers vegna að hræðast slíkt," hugsaði hann; „það er þó einhverntíma búið." Hann var nú orðinn hetja. „Hvað sem eftir fer, þá skal ég ekki vera sá heigull að fyrirfara mér; ég á kannske ekki svo langt eftir samt. Drottinn, ég þakka þér, að þú frelsaðir mig frá þessari stundu."

Hann stóð nú upp og gekk burt frá klöppinni. Áform hans að fyrirfara sér var nú orðið að engu. Hið illa og góða, þessi tvö sterku höfuðöfl, sem hvíldarlaust heyja sitt eilífa stríð í náttúrunni, og hvergi með meiri ákafa en í manninum, höfðu háð orustu í sálu hans, og hið illa hafði beðið ósigur. Hann gekk nú áfram, unz hann kom á veginn. Þar lá maður og stundi þungan. Hann leit upp og hræðslusvip brá yfir andlit hans. „Þú ert líklega kominn til að ljúka við verkið, sem þú byrjaðir á í gærkveldi," sagði hann með veikri rödd.

„Einar," svaraði hinn um leið og hann laut niður og tók hann upp í fang sér. „Ég hélt að ég mundi ekki sjá þig lifandi aftur. Nú er ég kominn til að flytja þig heim og biðja þig fyrirgefningar á því, hvernig ég fór með þig."

## II.

Hér verðum vér að nema staðar og biðja lesarann afsökunar á því, að hafa brotið reglur kurteisra manna með því, að segja honum ekki nafn manns þess, er háði þetta stríð við sjálfan sig; en nú skal það gert.

Hann hét *Árni* og var *Jónsson,* tvítugur að aldri. Þegar

á barnsaldri hafði hann misst báða foreldra sína, og af því hann átti enga ættingja, sem gátu eða vildu ala önn fyrir honum, urðu það forlög hans að fara á sveitina. Hreppsnefndin kom honum fyrir hjá bóndanum í Dal, og þar ólst hann upp sem olnbogabarn heimsins; hafði illt atlæti, og viðurværi og fatnað af skornum skammti, en varð að þræla eftir megni frá morgni til kvölds. Það var ekki sparað að minna hann á, að hann væri niðursetningur, sem ekki væri matvinnungur og mundi aldrei verða. Og einmitt af því, hve illu atlæti hann mætti, varð hann óviðráðanlegur og kargur, og því verri sem árin færðust yfir hann. Svo fór hann að laumast burt og ofan í kauptúnið, og þar komst hann í kunningsskap við stráka, sem voru eldri og spilltari en hann. Og þegar hann kom heim aftur, þá voru skammirnar vísar, og höggin líka, ef hægt var að ná til hans. Enginn aumkvaðist yfir hann, né reyndi að laða hann að sér. En með því maðurinn er fæddur með tilhneigingu til hins illa, og verður að verða fyrir góðum áhrifum í æsku, og síðan, þegar hann vitkast betur, hafa stöðugt gát á sjálfum sér, ef hið illa í eðli hans á ekki að ná yfirhönd, þá má nærri geta, hvernig munaðarleysinginn varð, sem enginn aumkvaðist yfir né leiðbeindi, og sem auk þess sá þess daglega vott, að hann væri öðrum til leiðinda og þyngsla. Það var aðeins ein lifandi vera, sem hann kærði sig nokkuð um; það var fóstursystir hans og jafnaldra, sem hét *Anna,* dóttir bóndans í Dal. Hún var ljómandi falleg stúlka, með blá augu og kringluleitt, bjart og hreint andlit, og nettar og mjúkar hendur. Þau umgengust hvort annað, og enginn fékkst um það, og sízt af öllu kom Dalbóndanum til hugar, að hann Árni, sveitarómaginn, mundi dirfast að fella ástarhug til dóttur hans, — ríkustu og fallegustu stúlkunnar í firðinum. Árni gerði sér heldur enga von um að fá hana, og reyndi með öllu móti að kæfa niður ást þá, er hann bar til hennar. En hann gat það ekki, og honum fannst lífið fara að verða óbærilegt. Svo reyndi hann að gleyma hörmum sínum í svölunarlind Bakkusar, og vínið, sem venjulega glæðir allt hið illa í eðli mannsins, hafði þau áhrif á hann, að hann varð svo illur og hamslaus, að enginn gat við hann ráðið.

saman komin,“ kvað hann, „öll þau illyrði, lygar og móðgunarorð, sem þið hafið talað á jörðinni. Við söfnum þeim saman, og eru þau hið bezta eldsneyti. Hér er þér fyrirhugaður samastaður. Líttu á.“

Johnson sá, að á einum ásnum var gullhnöttur á öðrum endanum, en engin vera.

„Hér áttu að tylla þér upp,“ sagði förunautur hans. „Hér getur þú verið ánægður. Auðurinn, sem þú drógst ranglega saman og sem þú hafðir svo mikla ánægju af, er hér samankominn í eina heild, og getur þú haft hann sí og æ fyrir augum þér og skoðað hann.“

Hin ógæfusama vera féll á kné og grátbændi hinn illa anda að vægja sér; en Belzebub hló dátt, þreif hann og kastaði honum upp á glóandi járnásinn. Hann rak upp skerandi neyðarvein, sem hið harðasta mannshjarta á jörðinni mundi hafa komist við af að heyra, en kvalari hans hló dátt, bað hann að skemmta sér við að horfa á gullið sitt og gekk burt . . . . .

---

# Elenóra

## I.

„Borgirnar eru í augum sumra, sem búa úti á landinu, eins og ljósin á kveldin í augum flugnanna: tælandi og ginnandi, en viss eyðilegging.“

*Franklin*

Ég er nýlega kominn heim til mín, eftir nokkurra vikna fjarveru, og hef dvalið mestallan þann tíma í Winnipeg. Ég er aðeins, sem menn segja, kominn „til rólegheita“ eftir ferðina, og hugsunaraflið, sem mér finnst alténd fara út í veður og vind, þegar ég er á ferðalagi, er nú aftur farið að safnast saman í eina heild. Áform mitt var að skrifa þessa sögu á meðan ég dvaldi í Winnipeg; en vagnaskrölt og annar skarkali, sem menn heyra hvergi nema í borgunum, truflaði mig svo, að ég gat ekki hugsað, eða dregið hugmyndirnar saman, og hætti svo við. Nú er ég byrjaður á nýjan leik. Nú truflar mig ekki lengur vagnaskröltið og hávaðinn í Winnipeg; ég heyri ekkert nema vorfuglana, sem eru að syngja fyrir utan gluggana. Og í staðinn fyrir háar og skrautlegar byggingar, sé ég ekkert nema laufgræna skóginn, og ána, sem liggur og glampar eins og silfurdregin lína innan um akra og skóga.

Mér finnst allt hér umhverfis mig vera næstum því eins og það leit út fyrir meira en tug ára, þegar söguhetjan mín átti hér heima. Mér finnst eins og það séu ekki nema fáir dagar síðan ég sá hana hér síðast. Mér er sem ég sjái hana nú, og heyri létta og viðfelldna hláturinn hennar. Hér ólst hún upp, frá því hún var barn og fram yfir fermingu; þá fór hún burtu og kom aldrei aftur.

Ég man bezt eftir henni, þessari frændstúlku minni, um það leyti, sem við gengum bæði í skóla. Hún var fallega vaxin og bar sig vel, og var sem hún léki öll á hjólum, en fljótt á að líta virtist hún ekki vera neitt framúrskarandi lagleg. Ég man eftir því, að ég heyrði suma segja, sem sáu hana í fyrsta sinni, að hún gæti alls ekki kallast fríð stúlka.

En svo þegar menn fóru að kynnast henni betur, þá urðu flestir að játa, að það væri eitthvað mjög skemmtilegt við hana. Það hafa ef til vill verið talin lýti, að hún hafði ör á vinstri kinninni, eftir meiðsli, sem hún fékk þegar hún var barn. En það var svo lítið, að kunnugum mönnum fannst ekkert um það. Hún var kringluleit í andliti, og hafði, sem fólk kallar, „vot augu", og þegar hún var á barnsaldri var hún rjóð í kinnum, en varð fölleitari með aldrinum; síðasta skiptið, sem ég sá hana, hnykkti mér við, hvað hún var orðin hvít og náföl í andlitinu.

Hvað mér finnst ég færast nær barnsaldri mínum við að rita um hana. Mér finnst ég vera aftur orðinn barn, og vera að lesa upp lærdómskverið mitt við hliðina á henni, — því hún var mér fremri í lærdómnum og minnti mig oft á, bæði í kverinu og biblíusögunum. En svo lærðum við fleira en þessa unglingaguðfræði. Við lásum saman söngfræði, ensku og norðurlandamál, og þar stóð ég ekki eins á baki hennar, ef til vill sakir þess, að mér féll betur að læra þær námsgreinar, heldur en að lesa kverið yfir hvað eftir annað.

Það var þá orðinn gamall og góður siður, að allir, sem áttu hægt með að losast frá heimilum sínum, — og ef til vill fleiri en áttu hægt með það — fóru burt og til bæjanna, helzt þó til Winnipeg, til að leita sér atvinnu dálítinn tíma af árinu. Jafnskjótt sem vora tók þusti flest yngra fólkið burt, og til Winnipeg, til að afla sér peninga, og svo til að eiga skemmtilegri ævi heldur en það þóttist eiga úti á landsbyggðinni. Og úr því það var einu sinni farið, þá var hrein undantekning, ef það kom aftur, það er að segja til að setjast að fyrir fullt og allt. Það kom oft heim, og dvaldi hjá vinum og ættingjum nokkra mánuði, um kaldasta tíma ársins, þegar lítið var um atvinnu í Winnipeg, og erfitt að komast þar af. Um það leyti ársins var ævinlega skemmtilegast og fjörugast hjá okkur í sveitinni.

En svo þegar á leið og dagarnir fóru að lengjast og næturnar að styttast, þá fóru að sækja leiðindi á bæjarfólkið. Það fór þá að dreyma um flugur og bleytur og kögraðar sólhlífar og drifhvíta „musseline"-kjóla. Svo fór það að smátínast burt, og vanalega fyrir sumarmálin var það allt farið og komið í gleðina og glauminn í Winnipeg;

en heima hjá okkur var endalaus blessuð kyrrð og værðarmók allt sumarið. Fullorðna fólkið vann og kúrði hvert í sínu horni, og ekkert varð til að rjúfa sumarværðina, nema aðeins ef fólk safnaðist saman á helgum dögum til að hlusta á Jónsbókarlestur.

Og þessi brottferðarsýki varð að nokkurs konar sóttnæmu fári, sem gekk yfir byggðina og gagntók flest unga fólkið. Það þusti burt óðara en það gat höndunum undir komist, eða með öðrum orðum: undir eins og búið var að klína á það kristindómsnafninu.

Vanalega var enginn svo fífldjarfur gárungi, að hann léti sér detta í hug að fara áður en hann var fermdur; og svo var það til þess, að margir unglingar lögðu harðara á sig en þeir annars hefðu gjört við að læra kristindóminn, til að geta sem fyrst losast, kastað kverinu og komist burt úr kvalastaðnum til Winnipeg, sem í þeirra augum varð að nokkurs konar jarðneskri Paradís.

Æskulýðurinn skoðaði ferminguna eins og nokkurs konar final-próf, og að því prófi loknu væri einkum þrennt leiðinlegt, sem maður losaðist við: barnsaldurinn, biblíuna og kverið, en í stað þess kæmi frjálsræði fullorðinsáranna, peningar og gleði í Winnipeg.

Hin eldri kynslóð var á líkri skoðun. Með fermingunni var álitið, að barnið hefði náð æðsta stigi lærdóms og menntunar í andlegum efnum, væri fært í flestan sjó og þyrfti ekki framar að hanga yfir kveri og biblíusögum. Fullorðna fólkið skoðaði ferminguna eins og nokkurs konar andlegt innsigli, sem tryggði mönnum himnaríki án nokkurs frekara „húmbúgs" eða orðafjölda.

Fólk kom með þessa skoðun á fermingunni frá gamla landinu. En þar var sá stórgalli á, að unglingar máttu ekki staðfestast fyrr en þeir voru 14 ára. En hér vestra voru ekki slík ólög, og fólk bað prestana að ferma börn sín 12—13 ára, svo þau gætu sem allra fyrst kastað kverinu og „komið til léttis."

Söguhetjan mín, hún Elenóra, gekk til prestsins þrjá vetur. Ekki var það af því að hún þyrfti þess, sagði fólkið, en henni þætti svo vænt um að staglast á kverinu, að hún gæti ekki slitið sig frá því. En svo þegar hún á hverju vori

sá jafnaldra sína fara burtu til Winnipeg, þá fóru að sækja á hana leiðindi líka.

„Ég læt ferma mig að vori og fer," sagði hún eitt sinn við mig. „En hvað það hlýtur að vera skemmtilegra að eiga heima í Winnipeg og hafa lítið að gjöra og ganga út á kveldin og fara á skemmtisamkomur, eins og hún Imba hérna segir að það gjöri efra."

Ég reyndi að telja hana frá því, mest sakir þess, að ég vissi, að ég mundi ekki fá að fara líka, en hálfdrepast úr leiðindum þegar hún væri farin. En fortölur mínar dugðu ekki. Hún sagðist ekki vilja sitja heima þegar allar jafnöldrur sínar væru farnar, og um veturinn lagði hún harðara á sig við kverið og biblíusögurnar, en hún hafði nokkru sinni áður gjört.

Svo leið veturinn, og um vorið var hún fermd ásamt 13 öðrum börnum.

Síðan eru liðin mörg ár. Öll þau ungmenni, sem þá gengu til guðsborðs og sóru honum trúnaðareiða, eru nú komin til fullorðinsáranna og út í heiminn. Þrjú hafa gengið inn í trúarflokk Únítara, tvö eru komin í Presbyteriönsku kirkjuna, fimm halda fast við barnatrú sína, eitt er viðurkenndur trúleysingi, en tvö eru dáin. Öll voru þau einlæg og staðföst þann dag, sem þau voru fermd. En „svo fór um sjóferð þá," og eins hefir að líkindum farið um fleiri kristindóms sjóferðir.

Ég gekk með Elenóru út úr kirkjunni að aflokinni messugjörð. Það var þokufullt loft og ýrði úr skýjunum. Hvorugt okkar talaði neitt. Fermingarathöfnin um daginn hafði verið svo hátíðleg og lagt svo mikinn alvörublæ yfir okkur.

Við gengum fram hjá tveimur mönnum; það var Árni gamli í Skógum, sem var að tala við nágranna sinn.

„Það segi ég satt, að þessu verð ég feginn," heyrði ég Árna segja, „að hann Nonni minn losaðist við fjandans — ekki sem— blaðabulluna. Þarna hefir hann staðið á hausnum við þetta allan guðslangan veturinn og ekki verið hægt að nota hann til svo mikils sem að sópa upp fyrir kú. Ég er búinn að heita honum því, að hann skal fá að „dudda" betur að vetri, að mér heilum og lifandi, og hananú!"

Ég heyrði ekki, hverju hinn svaraði; ég gat ekki annað

en brosað að þessu við Elenóru. Hún var nú líka orðin laus við „blaðabulluna.“

Hún sýndist vera svo sokkin niður í hugsanir sínar, að hún hafði ekki veitt Árna eða orðum hans eftirtekt; við héldum svo heimleiðis.

Það lá hálfilla á mér um kvöldið. Ég vissi að Elenóra mundi hafa það af að komast til Winnipeg með unglingunum, sem ætluðu að fara þá um vorið. Hún hafði verið leiksystir mín svo lengi, að ég vissi ekki, hvernig ég ætti að komast af þegar hún væri farin. Auðvitað ætlaði hún að koma aftur um haustið, en mér fannst, að ef hún eitt sinn færi burt, þá mundi hún aldrei koma aftur. Ég óskaði að presturinn hefði heldur orðið veikur, eða eitthvað komið fyrir, svo að ekkert hefði orðið af fermingunni, því þá hefði hún hvergi farið. Og um nóttina hrökk ég hvað eftir annað upp við það, að ég sá Elenóru ýmist eina á áralausum bát í stórsjó, eða ég sá hana vera að klifra í snarbratta kletta og detta svo niður, eða hún var ásótt af grimmum hundum, sem felldu hana og rifu sundur, og í hvert skipti endaði ruglið á þá leið, að hún sá mig, og ég vaknaði við örvæntingaróp frá henni um hjálp.

Svo þegar sumarblíðu dagarnir fóru að koma, þá fór að koma hreyfing á ferðafólkið; það þurfti að búa sig undir ferðina, og heimsækja kunningja og kveðja þá.

Elenóra bjóst líka til brottferðar, og heimilisfólkið hafði nóg að gjöra í marga daga að búa hana undir ferðina, „svo hún kæmi ekki fram því til skammar.“

„Ertu alráðin að fara, Elenóra,“ spurði ég hana einu sinni.

„Já,“ sagði hún; „ég ætla að fara. Það hlýtur að vera langtum betra og skemmtilegra að vera í Winnipeg en hér. Stúlkurnar hæðast að mér fyrir að vera hér alltaf, og segja ég læri aldrei málið, og mentist aldrei nema ég fari. En svo kem ég aftur í haust, og verð hér neðra í allan vetur.“

„Það er nú bágt að segja. Ég gjöri nú ekki mikið úr vitsmununum hennar Imbu og stúlknanna hérna, margt getur verið að í Winnipeg, ekki síður en hér.“

„Hvaða bull er í þér, strákur! Heldurðu það sé ekki munur að afla sér peninga með þægilegri vinnu allt sumarið,

lifa miklu skemmtilegra lífi en hér, og læra málið og mennta sig.“

„Ég ætla nú ekki að fara að telja þig af því. Ég vissi það var ekki til neins. Þú skrifar mér til. Er ekki svo?“

„Jú, ég gjöri það auðvitað, og þú átt að skrifa mér aftur. Svo skal ég senda þér falleg blöð til að lesa, og mynd af mér einhverntíma.“

Svo rann upp dagurinn þegar allur hópurinn átti að leggja af stað. Náttúran gjörði sitt bezta til, að gjöra þann dag hátíðlegan. Enginn skýhnoðri sást á loftinu, og ekki blakti hár á höfði. Elenóra var í bláum kjól, sem einhver sprenglærð *„dressmaker“* frá Winnipeg hafði saumað, eftir nýjasta „móð.“ Hún hafði rautt band um mittið, og á höfðinu hvítan stráhatt og hárið slegið undir.

Svo kom báturinn með fólkinu til að taka hana. Hún kvaddi heimilisfólkið og lá illa á henni; síðastan allra kvaddi hún mig.

„Vertu nú sæll, frændi!“ sagði hún í hálfum hljóðum, „og gleymdu ekki að skrifa mér. Ef þér leiðist í sumar. þá mundu eftir því að ég kem heim í haust, og verð heima í allan vetur.“

Ég man ekki, hvort ég svaraði henni nokkru. Ég var alltaf vondaufur um, að hún mundi koma aftur. Hún steig svo upp í bátinn, leit í síðasta sinni yfir æskuleikstöðvar sínar, og svo lagði báturinn af stað og var von bráðar horfinn.

Ég horfði á eftir honum meðan hann sást; svo stóð ég grafkyrr í sömu sporum langan tíma á eftir.

Hádegissólin sendi brennheita geisla yfir jörðina. Enginn skýhnoðri var á loftinu og enginn andvari.

Ofurlítill fugl flaug tístandi rétt við eyrað á mér; ég hrökk saman, rankaði við mér og gekk inn í húsið.

## II.

### *(Bréf frá Elenóru)*

Winnipeg, 13. júní 18..

.... Ég var búin að lofa að skrifa þér, og ætla nú að reyna að efna það loforð, þó lítið hafi ég í bréfsefni. Ég er svo frámunalega illa fyrir kölluð að skrifa, en þú verður að

afsaka það, og taka viljann fyrir verkið. Af ferð okkar hingað er ekkert að skrifa annað en það, að hún gekk seint og slysalaust; ég var vistlaus fjóra daga, og fór síðan í vist til enskra hjóna hér í bænum. Ég skal játa það, að lífið hér er, að mér virðist, allmjög á annan veg, en ég hafði gjört mér hugmynd um. Það getur verið að hér sé skemmtilegra heldur en hjá ykkur út á landsbyggðinni, en það eru ekki allir, sem geta orðið þeirra skemmtana aðnjótandi. Vinnuharka er hér meiri en ég gjörði mér hugmynd um. Ég verð að fara á fætur kl. 5 á hverjum morgni, og er ekki laus fyrr en kl. 9—10 á kveldin, og hef í laun fjóra „dollara“ um mánuðinn. Mig hefði langað til að skoða bæinn betur, en bæði er tímaleysið, og svo vantar mig föt til að ganga í um Winnipeg; og í þriðja lagi þori ég ekki að fara ein, en þekki enga hér nálægt, sem ég gæti fengið til að fara með mér. Það er að sönnu íslenzk stúlka hér í næsta húsi, sem lengi er búin að vera hér, og kann vel málið; en hún þykist víst of fín og upp úr því vaxin að leiðbeina, eða láta sjá sig með mér eða öðrum græningjum utan af landi. Þó ég þættist vera komin nokkuð niður í málinu áður en ég fór, þá hef ég oft átt bágt með að skilja sumt, sem talað hefir verið við mig. En mér fer daglega fram í málinu sem betur fer. Ég hef einstöku sinnum séð íslenzkar stúlkur ganga hér eftir götunum; ævinlega eru þær prúðbúnar, eins og hefðarfrúr, og tala ensku, — ekkert nema ensku, jafnvel þó enginn hérlendur heyri til þeirra. Ekki held ég samt þær gangi einsamlar út, ef þær hafa nokkur önnur ráð; því oft hef ég tekið eftir því, að þær hafa haft stuðning af ungum og laglegum piltum ýmist enskum eða íslenzkum.

Fyrir mestu náð og miskunn fékk ég leyfi hjá húsmóður minni að fara til kirkju fyrra sunnudagskvöld. Ég varð samferða stúlkunni, sem ég minntist á við þig áðan. Þegar við komum inn, var kirkjan troðfull af fólki. Það er skrautlegt hús, og öðruvísi en litla kirkjan okkar heima. Annars gat ég ekki veitt henni nákvæma eftirtekt. Það þótti mér nýstárlegt, að einmitt að lokinni ræðunni var gengið með disk fyrir alla, til að sníkja peninga út úr mönnum. Sagt er, að það sé gjört í öllum kirkjum hér við hverja „messu.“ Mér finnst að sú athöfn hafi lítil andleg áhrif á mann. Ég var

eitthvað að hugsa um efni ræðunnar, en þegar ég heyrði glamrið í peningunum hvarf það allt úr huga mínum. Getur verið, að svo hafi verið fyrir fleirum. En það er þáttur af guðsþjónustunni, þetta peningabetl, og svo er það náttúrlega gott og *heilagt* . . . .

III.

Winnipeg, 2. janúar 18 . .

. . . . Þú hefir nú ástæðu til að halda, að ég sé búin að gleyma þér og ykkur öllum heima, að ég skuli ekki hafa endurgoldið bréfið frá þér fyrr en nú. Ég get ekki annað en játað sekt mína í því efni, beðið fyrirgefningar og lofað bót og betrun, eins og góðu börnin gjöra. Ég hefi nú margt og mikið að skrifa þér, ef ég gjöri það eftir því. Ég fór úr vistinni, sem ég var í, þegar ég skrifaði þér seinast, og er nú í annari vist á „hóteli", og hef 15 dollara um mánuðinn. Hér á „hótelinu" eru fjórar aðrar íslenzkar stúlkur, svo það er allskemmtilegt, og við höfum ekki mjög harða vinnu. Við ljúkum verkum okkar kl. 8—9 á kvöldin, og getum þá gengið um bæinn að skemmta okkur, ef við viljum.

Við heimsækjum oft landa, og ég hef kynnst allmikið í bænum, síðan ég skrifaði þér.Skelfing held ég að það sé gott og guðhrætt fólkið hérna. Kl. 10 á hverjum sunnudegi, jafnskjótt sem það hefir borðað morgunmatinn, gengur það í kirkju og hlýðir messu. Þegar hún er á enda, er komið hádegi, og fer það þá heim og borðar miðdegisverðinn með lofgjörð og bænahaldi. Kl. 3 er maturinn dálítið farinn að sjatna, og þá fer það af stað aftur og á sunnudagsskólana, og er á þeim til kl. 4—5, að það kemur heim, því þá fer að líða að kveldmat. Undir eins eftir kveldmat gengur það í kirkju, og kemur heim aftur um kl. 9. Þannig gengur allur sunnudagurinn til að þjóna guði og éta mat. En þetta eru nú svo sem ekki einu dyggðirnar fólksins hérna í Winnipeg. Aldrei setjast menn svo hér til borðs, að ekki sé lesinn borðsálmur og var ég því óvön, því slíkt tíðkaðist sjaldan heima. Svo er fólkið svo kurteist hér, að það þérar hvað annað, og ávarpar hvað annað með „Mister", „Missis" og „Miss" titlum

í viðtali. Félög eru hér á annari hverri þúfu: Framfarafélag, Bindindisfélag, Kvenfélag og Söngfélag o. fl. Ekki hef ég gengið í neitt þeirra ennþá, en ég er hálfvegis að hugsa um að ganga í Söngfélagið.

Hér var haldin jólatrés-samkoma í kirkjunni á aðfangadagskvöld, og fór ég þangað með hinum stúlkunum. Þegar við komum, var nýbyrjað að syngja; fólksfjöldinn var svo mikill, að varla var hægt að komast inn. Kirkjan var öll uppljómuð með lampa- og kertaljósum. Presturinn stóð frammi fyrir fólkinu, en tréð stóð til annarar handar, og var tjaldað fyrir það, svo gersemarnar skyldu ekki sjást. Orgelið stendur uppi á lofti, og söngmennirnir höfðu raðað sér kringum það, og söng svo hver sem bezt gat. Sýndust mér þeir svo miklir á lofti, að þá mundi ekki vanta annað en vængi og stél, til að komast á flug. Ekki gat ég heyrt, hvaða sálmur var sunginn. Svo eftir messuna var kveikt á mörgum kertum á trénu, svo það var allt einn ljósakrans, og síðan var tjaldinu svipt frá. Innst í kirkjunni, næst prestinum, eru þrír bekkir, og sýndist mér fólkið, sem í þeim sat, vera prúðbúnara en hitt fólkið; leit út fyrir að það ætti þessa bekki vísa, og raðaði sér þannig niður frammi fyrir söfnuðinum. Þetta fólk hjálpaði til að afhjúpa tréð. Margar og fagrar gjafir voru á trénu: silkiklútar, *albums* ,saumakassar, en mest var þar samt af spjöldum. Flestar stúlkur, sem inni voru, fengu einhverja gjöf, sumar margar. Ég fékk hálskraga úr dýru skinni, sem náði ofan á axlirnar; og er mér óskiljanlegt, hver gefandinn getur verið. En svo tóku krakkarnir að ærast í kringum tréð, svo að ekki var hægt að hafa stjórn eða reglu á neinu, og heyrðist varla til þeirra. sem voru að útbýta gjöfunum. Kvenfólkið, sem búið var að fá gjafir, var að skoða þær með ánægjusvip, og sýna hvað öðru; aðrar sátu hér og þar og voru að tala út um alla heima og geima, og enn voru aðrar, sem voru að segja slúðursögur. En ekki gat ég orðið þess áskynja, að nokkur sála hefði í huga atburð þann, sem átti sér stað fyrir nærfelt 19 hundruð árum, og sem jólin eru haldin í minningu um . . . .

IV.

27. maí 18..

.... Hvað andlegu fæðuna snertir, þá er fólkið hérna varla á flæðiskeri statt. Íslenzku prestarnir eru nú ekki orðnir færri en þrír, og geta menn hlýtt á þá á helgum dögum. Í lútersku kirkjuna fer ég á hverju sunnudagskveldi. Svo eru Únítarar búnir að mynda söfnuð hér, og hafa samkundu og poka út af fyrir sig. Í þriðja lagi hefir Presbýteríenska kirkjan sett hér upp kapellu; og er búið að „rigga" upp nýmóðins postula til að umvenda fólki; og syngur hann tíðir í kapellunni á hverju sunnudagskveldi. Hann leggur mikla áherzlu á helvíti, og getur ekki án þess verið. Allir þurfa frá hans sjónarmiði að „umvendast," svo þeir geti orðið hólpnir. Hann hefir dregið allmarga til sín, mest kvenfólk, sem síðan eru kallaðar „postula-kerlingar", ekki svo að skilja, að það séu allt afgamlar kerlingar, sem í söfnuði hans eru, heldur er meiri hluti þess ungar stúlkur, en það er nú einu sinni komið í hefð að kalla það kerlingar, hvort sem það eru ungar stúlkur eða karlmenn. Og þegar búið er að „umvenda" þessu fólki, þá er það um leið orðið heilagt, og drýgir ekki synd framar. Tvær af stúlkunum hér á hótelinu eru „umventar", og fara á hverju sunnudagskveldi að hlýða á „postulann". Oft hafa þær verið að reyna að fá mig þangað, en aldrei tekist fyrr en á sunnudaginn var, að ég lét tilleiðast og fór með þeim.

Kapellan er lítið hús, og þegar ég lauk upp dyrunum, sá ég að einhver hafði skrifað með ritblýi á hurðina: *„hlið* helvítis". Ég benti einhverjum á það, og brátt tóku fleiri eftir því og fóru að skoða og lesa. Svo kom þar maður, sem leit út fyrir að hafa framkvæmdarvald. „Þetta hefir einhver lúterski djöfullinn gjört", sagði hann, og fór að reyna að þurrka letrið af með fingrunum; þegar ég heyrði orð hans, datt mér í hug það, sem ég hafði heyrt talað um heilagleik hinna „umventu".

Fyrir stafni voru ýmsar fagrar myndir festar upp á vegginn til að prýða húsið. Tvær stórar myndir af helvíti hjengu þar uppi, rétt á bak við postulann. Á annari þeirra var málaður djöfullinn með fjóroddaða mykjukvísl í hendi

og var að henda hinum fordæmdu öndum beina leið niður í kvalastaðinn.

Af því kalsaveður var, höfðu margar stúlkur safnast saman við ofninn og stóðu þar eins og Pétur við logann forðum. Sást nú postulinn koma lötrandi ofan strætið með pípuhatt á höfði og biblíuna undir hendinni, og von bráðar hafði hann hrundið upp hurðinni og sá hópinn, sem beið hans inni.

„*Come along,* Jesú Krists lærisveinar," sagði postulinn og gekk hratt inn eftir gólfinu og staðnæmdist fyrir framan myndina af kvalastaðnum.

Þegar hann hafði klöngrast í gegnum fyrsta sálminn sneri hann sér fram að „kerlingunum" og hóf ræðu sína á þessa leið:

„Sérstaklega vil ég í dag, bræður og systur í Kristi, snúa máli mínu til stúlkunnar, sem situr þarna fram á bekknum hjá eldiviðarkassanum," — mér varð litið þangað og sá ég að þar sat ung stúlka, fölleit, sem auðsjáanlega geðjaðist ekkert að því að vera gjörð að umtalsefni í ræðu, — „finn ég mér skylt að ávarpa hana á undan öllum öðrum systrum vorum í drottni, til að fyrirbyggja misskilning. Svo er mál með vexti, að drottinn vor hefir nú, síðan harnaði að og atvinna minnkaði, miðlað mörgum hinum fátækari börnum sínum af ríkidómi sinnar náðar og sent þeim brauð og kjötkarfir fullar. Nú vildi svo til, að drottni þóknaðist að senda systur vorri, þarna aftur á bekknum, eina körfu fulla. En svo illa stóð á, að ekki var hægt að senda annað en brauð og lítið af osti, en ekkert af kjöti, því það var vita kjötlaust."

Nú gat ég ekki annað en hlegið ofan í vasaklút minn. Það var nokkuð kátleg hugmynd, að guð hefði orðið kjötlaus. Postulinn hefir víst séð að ég hló, því hann brýndi raustina og hélt áfram:

„En þeim syndugu og óguðlegu, sem spotta nafn drottins og gjöra gis að orðum hans þjóna, mun verða steypt niður til helvítis, þar sem vera mun grátur og tanna gnístran. En svo ég víki aftur að því efni, sem ég var með, þá vildi ég biðja systur vora að hneykslast ekki á því, þó hún yrði afskipt af kjötinu í þetta skipti, en trúa því og treysta, að

næst muni drottni þóknast að gleðja sál hennar og senda henni gnægð matar, bæði af kjöti, brauði og osti."

Þessi matarræða sýndist að snerta einhverja viðkvæma taug í brjósti stúlkunnar, því ég sá ekki betur en hún táraðist. Postulanum þótti víst nóg komið af því efni og var auðsjáanlega hrifinn yfir krafti orða sinna, eins og hann hafði alla ástæðu til að vera. Hann byrjaði svo á öðru efni, og í nærfellt heilan klukkutíma staglaðist hann á, að menn þyrftu að „umvendast", „koma til Jesú" o. s. frv. Loksins tókst honum að umvenda einni kerlingu, verulegri, sextugri kerlingu, sem langaði til að verða „heilög".

Að endingu skoraði hann á alla að biðjast fyrir.

„Beygið kné yðar, bræður og systur," sagði hann, „því skrifað stendur, að jafnvel djöfullinn og hans veldi skuli jafnvel lúta drottni vorum."

Allar kerlingarnar krupu til að biðja. Ég ein sat grafkyrr. Postulinn tók eftir því, og brýndi raustina:

„En svíri hinna óguðlegu er svo stýfur, að þeir geta ekki lotið vorum herra; þar fyrir mun djöfullinn beygja þeirra syndug hné og hálsa í helvíti!"

Loks stóðu kerlingarnar upp. Postulinn gekk fram að dyrunum og tók í hendina á hverjum sem út fór.

„*Miss*", sagði hann við mig, og tók utan um báðar hendur mínar þegar ég ætlaði út: „Ég hef veitt yður eftirtekt í dag; þér hafið hagað yður eins og hinir óguðlegu, og sýnt það berlega, að djöfullinn býr í yður. Það hryggir mig, að sjá jafn efnilega stúlku og þér eruð á leiðinni til helvítis. Snúið yður og trúið meðan tími er til, og leitið Krists; hann mun færa yður lífsins vatn og þvo yður, svo syndir yðar verði hvítar sem snjór, þó þær áður hafi verið rauðar sem blóð. Hann mun taka burtu steinhjarta yðar, og gefa yður kjöthjarta í staðinn. Viljið þér ekki, fagra unga systir mín, koma og leita að Kristi í dag, og þér munð finna hann? Viljið þér ekki umvendast og verða syndlaus og heilög, og ganga götuna til musteris drottins, í staðinn fyrir að ganga götuna til helvítis, eins og þér gjörið nú?"

„Ekki veldur sá er varir, þó ver fari," sagði ég. „Ég hef ekki sem stendur löngun til að umvendast, og ekki tíma til að fara að leita að Kristi, því ef hann er týndur, þá er ekki

víst hann finnist svo fljótlega, en mér þykir vænt um, ef þér viljið gjöra svo vel að sleppa mér; þér haldið svo fast utan um hendur mínar, að mig kennir til“ . . . .

Hann sleppti mér snögglega. „Þér munuð tilheyra lútersku sauðunum, sem ásamt prédikara sínum eru á beinni leið til helvítis.“

„Ég tilheyri ekki neinum sauðum, hvorki lúterskum eða öðrum. En úr því þér vitið, að ég er á leiðinni til helvítis, þá getið þér heilsað þangað frá mér, ef þér komið þangað á undan mér.“

Hann sagði eitthvað meira, sem ég heyrði ekki, því ég lauk upp hurðinni og fór út.

Svona lauk nú þessari kirkjugöngu. Ég hef verið að segja þér frá þessu, svo þú getir fengið hugmynd um, hvernig guðsþjónusturnar fara fram í kapellunni.

Ég er að hugsa um að ganga á skóla næsta vetur, þó ekki væri nema lítinn tíma; ég hef vanrækt menntun mína síðan ég kom hingað, enda hef ég haft annað að gjöra. Alltaf er verið að prédika fyrir fólki, hvað það sé nauðsynlegt að vera skólagenginn. Víst er um það, að álit á mönnum vex stórum við það. Takist einhverjum að komast svo hátt, að verða „tossa“ kennari með lægsta prófi, þá eru öll líkindi til, að hann komist fljótt í vinskap hjá „bezta“ fólkinu, og úr því er nú sjálfsagt að fara að þéra og „Mistera“ almúgann.

## V.

Winnipeg, 22. janúar 18

Þetta bréf kemur að líkindum heldur seint til að óska þér gleðilegra Jóla og Nýárs; samt sem áður ætla ég að gjöra það, því „betra er seint en aldrei.“

Af mér er það að segja, að ég hef haft vistaskipti síðan ég skrifaði seinast. Ég fór af „hótelinu“, og er nú í vist í „prívat“ húsi. Húsbóndi minn er Íslendingur og heitir Johnson, og rekur matvöruverzlun í stórum stíl niðri á 26. *avenue.* Þeir eru margir í félagi og heitir félagið *Johnson, Johnson* & *Co.* Húsbóndi minn heitir á íslenzkri íslenzku Einar Jóhannesson, en á Winnipeg-íslenzku Mr. Johnson. Flestir skipta hér um nöfn. Íslenzku nöfnin þykja svo stirð og

dónaleg. Mr. Johnson er kvæntur maður, og á þrjú börn. Hann er í lúterska söfnuðinum, og lætur sér mjög annt um söfnuð sinn. Hvað hinir verzlunarfélagar hans heita, veit ég ekki.

Hér var á gamlárskvöld haldin samkoma — *entertainment* trúi ég það væri nefnt, — og af því að auglýst var, að þar yrðu þær beztu skemmtanir, sem fólk hefði nokkurn tíma átt kost á, þá ásetti ég mér að fara þangað, og fór. Þetta reyndist þá að vera tíu „centa" kvenfélagssamkoma, þegar til kom. Helztu „skemmtanir" voru, að lesnar voru upp sögur, sem allir höfðu áður heyrt og nokkur algeng lög sungin. Kvenfélagið hér heldur flestar samkomur. Stefna þess félags er að heita kvenfélag og safna peningum með samkomum. Síðan gefa þær dálítinn hluta af tekjum sínum til kirkjunnar eða safnaðarins, og fá svo í staðinn skjall í blöðunum. Jæja, þær stóðu fyrir þessari samkomu, sem ég var að segja frá. Forsetinn sat í hásæti og leit út eins og bústinn og rogginn hrafn. Þar var saman komið margt af hinu „leiðandi" og „bezta" fólki, og hafði, eins og vant var, tekið sig út úr og raðað sér niður í innstu bekkina, svo allir gætu séð það. Máltíð, sem nefnd var *supper* — kvenfélags-*supper* náttúrlega — var seld þar, því að gefa máltíð hér þætti óhæfa. Borð með drifhvítum dúk og krásum var sett fram, og var allt leiðandi fólkið tínt saman úr hópnum og beðið að „gera svo vel"; fannst mér það líkt eins og þegar fiskimenn á Íslandi voru að velja úr afla sínum stærstu og fallegustu golþorskana og setja í raðir hjá sér. Yfir borðum var leiðandi fólkið með hrókaræðum og gætti þess vandlega að tala svo hátt, að allir gætu heyrt; hefir það eflaust sannfærst um, að mikið hefði það forsjóninni fyrir að þakka, að vera ekki eins og aðrir menn. Og er það hafði fengið nægju sína, var hinu óæðra fólki mildilega leyft að tylla sér á skákina; en kvenfélagskonur sátu með ánægjusvip í kring, eins og þær væru hrifnar yfir því, hve mikil og dýrðleg væru verk og framkvæmdir kvenfélagsins. Svo leið tíminn þangað til klukkan var tólf; þá var nýja árið runnið samkvæmt áliti hérlendra. „Leiðandi" og „bezta" fólkið stóð upp og fór að óska hvort öðru *„Happy new year"*; og heyrði ég sagt slíkt væri innlendur siður. Svo var það að ganga

innan um húsið, og ná í þá, sem helzt voru af þeirra flokki, til að óska þeim hamingju, en leit ekki við hinni óæðri tegund mannkynsins. Það tróð sér innan um fólkið, fram hjá ef til vill einum fimm eða sex, til að geta tekið í hendina á einum, sem þeim þótti þess verður. Mér lá við að kenna í brjósti um vesalings fólkið, sem ekki var virt viðlits; það varð svo framúrskarandi hundslegt á eftir.

## VI.

Religion! and is *this* what we call religion? Is that which can bend, and turn, and ascend, and descend, to fit every phase of worldly, selfish motive, religion?
*St. Clare, in „Uncle Toms Cabin.“*

Ég hef sett þessa undanfarandi kafla úr bréfum frá Elenóru inn í söguna, bæði vegna þess, að mér finnast þeir skemmtilegir, og svo líka til þess að gefa nokkra hugmynd um lífið í Winnipeg og mismuninn á því og sveitalífinu.

Nú vildi svo til, skömmu eftir að ég fékk þetta síðasta bréf hennar, að ég þurfti að fara til Winnipeg í nauðsynlegum erindagjörðum. Ekki hafði ég komið þangað áður, og var ekki laust við, að ég hlakkaði til að koma í þessa heimsfrægu borg, þar sem flestir „leiðandi“ menn sitja, og allt vitið úr þjóðinni er samankomið í eina heild.

„Ég kom inn í bæinn að kvöldi dags og var orðinn þreyttur. Ég sá þar mann, sem ég þóttist vera viss um að mundi vera af sama þjóðerni og ég, gekk til hans, heilsaði honum og spurði hann, hvort hann gæti vísað mér á greiðasöluhús, þar sem ég gæti gist um nóttina.

„Vatnsgrautarhúsið er þarna rétt hinu megin í strætinu, ef það er fullgott fyrir þig; en *vanti* þig annað betra, þá farðu á eitthvert hótelið,“ og eftir þessa markverðu upplýsingu gekk hann burt, án þess ég gæti spurt hann frekara.

Ég sá minn kost beztan að ganga yfir strætið og reyna að leita uppi vatnsgrautarhúsið, og gjörði það, og hringdi dyrabjöllunni á fyrsta húsinu, sem ég kom að.

Hurðin opnaðist og höfuð með gylltum prjóni ofan í hvirflinum gægðist út. Prjónninn var auðsjáanlega settur til þess að allir gætu séð að höfuðið væri af manna- en ekki apakyni. Kvenpersóna var það, og auðsjáanlega komin á

þann aldur, þegar stúlkur hætta að hugsa um pilta og fara að hugsa um ketti. Ég hafði heyrt, að það þyrfti að titla alla í Winnipeg, en þarna var ég í vandræðum, hvort ég ætti heldur að kalla þetta höfuð „Missis" eða „Miss". Ef einhver hefði komið og sagt mér að kalla hana systurdóttur fjandans, því hún væri það, þá hefði ég trúað því óðara. Loks afréð ég að skella á hana jómfrútitlinum og láta það hafa það, þó aldrei væri það nema mesta fjarstæða.

„Gott kvöld, *Miss!*"

„*What?*"

„Gott kvöld. Ætli ég gæti fengið að vera hér í nótt?"

Í staðinn fyrir að svara, sneri hún sér inn í dyrnar og hrópaði:

„*Missus!*"

Enginn gegndi, svo hún fór inn og hrópaði hærra:

„*Missus!*"

„*Yes*", var svarað einhvers staðar, og rómurinn ekki ólíkur því sem lætur í ketti undir vissum kringumstæðum.

„Maður úti, sem vill fá að *stoppa í night.*"

„*My goodness, Sarah!* er það nokkur gentlemaður?"

„*No,* bara einhver *Icelander.*"

„Láttu hann þá koma inn."

Prjónninn gægðist aftur út í gættina, og rödd, sem virtist eiga heima einhvers staðar í nánd við prjóninn, sagði mér að koma inn, og laumaði að mér í trúnaði þeirri gleðifregn, að „*supper*" væri bráðum „*ready.*"

Winnipeg-íslenzkan er nokkuð frábrugðin íslenzkri íslenzku, og er það að þakka vaxandi menntun og sjálfsáliti í Winnipeg. Til upplýsingar fyrir sveitafólk á Íslandi, sem kann að lesa þessa sögu, skal þess getið, að Winnipeg-íslenzkan er ekki ósvipuð svartflekkóttri sauðkind. Bezt væri að kindin væri með smásvörtum dílum um sig alla, en ekki með stórskellum. Hún mætti líka gjarnan vera meinuð og bera halt höfuðið. Ef lesarinn hefir séð kind líka þessu, þá getur hann gert sér hugmynd um Winnipeg-íslenzkuna.

Þegar ég hafði lokið erindum mínum daginn eftir, ásetti ég mér að hitta Elenóru. En af því ég vissi ekki hvar hún

átti heima, þótti mér ráðlegast að hitta húsbónda hennar, sem hafði sölubúð á Nr. 7008, 26. avenue.

Hann og félag hans (*Johnson, Johnson & Company*), eins og það var auglýst í blöðunum, var álitið eitt af stærstu og áreiðanlegustu verzlunum í bænum. Johnson, húsbóndi Elenóru, var sérstaklega mikils virtur, og hafði enginn neitt á móti honum að segja. Hann var hæsta ráð í lúterska söfnuðinum, og ætíð fremstur í öllu, er snerti framfarir og félagsskap. Hann gaf stórfé til prests og kirkju á hverju ári, og allt af frjálsum vilja, því skyldugjöld, eins og á gamla landinu, þekkjast hér ekki. Hann hafði brennandi áhuga á skóla- og safnaðarmálum, og sparaði hvorki tíma né peninga því til hjálpar. Eins og hverjum sannkristnum manni ber, gekk hann í kirkju tvisvar á hverjum sunnudegi, las daglega biblíuna í heimahúsum og settist aldrei svo til borðs, að hann bæði ekki guð um blessun sína. Hann ámælti harðlega vantrúarmönnum, og þeim, er voru nískir á að leggja fram peninga, til styrktar „hinu góða málefni". Og hann hafði líka að nokkru leyti sín laun úttekið fyrir verk sín. Hann var í hávegum hjá öllum „beztu" mönnum þjóðarinnar, var hafinn úr einu embættinu í annað, og úr einni félagsstjórninni í aðra. Það þótti varla ráð ráðið, nema hann væri aðspurður. Ég gjörði mér miklar hugmyndir um þennan mann, eftir öllu, sem ég hafði heyrt af honum. Og það var með mikilli lotningu og auðmýkt, að ég gekk inn í sölubúð hans á 26. *avenue.*

Hann sat á stól innarlega í búðinni og var að skrifa. Þegar hann sá mig, stóð hann upp og kom á móti mér.

*„Well Sir! what can I do for you."*

Ég nefndi mig, og bað fyrirgefningar, ef ég gjörði honum ónæði, og bætti síðan við: „Hef ég þá ánægju að tala við Mr. Johnson?"

„Já, það hafið þér. Gjörið þér svo vel að fá yður sæti. Gleður mig að sjá yður. Ég hef heyrt yðar getið. Hvenær komuð þér í bæinn?"

„Í gærdag seint."

„Og búist þér við að hafa langa viðdvöl?"

„Ekki nema til morguns. Mig langaði til að tala við Elenóru, en af því að ég vissi ekki, hvar húsið yðar var,

gekk ég hingað til að fá leiðbeiningar um það hjá yður, Mr. Johnson."

Ég var rétt búinn að segja „þér", í staðinn fyrir „yður". Ég þarf ævinlega að hafa gát á mér, þegar ég tala við þá kátlegu tegund af mannkyninu, sem·þarf að þéra og titla með „Mister" eða „Missis" titlum við hverja setningu.

„*Exactly,*" svaraði hann. „Það var rétt af yður; þér gjörið svo vel að koma heim og *taka hjá mér Supper.* Nú er orðið áliðið dags, og eftir hálfa klukkustund fer ég heim, og þá verðið þér mér samferða."

„Þakka yður fyrir," svaraði ég. Mér þótti honum farast höfðinglega. En ekki leist mér meir en svo á hann. Hann hafði lymskuleg grá augu, og var eins og skaparinn hefði gjört það af ásettu ráði, að bora þeim sem lengst inn í höfuð hans, svo menn gætu síður séð hvað í þeim bjó.

„Hvernig líst yður á borgina?"

„En vel; hvernig ætli manni eigi öðruvísi á hana að lítast; en satt að segja hef ég lítið vit á að dæma um það, ég er svo ókunnur hér í bænum ennþá."

„Já, hér er allt í uppgangi. Það er öðruvísi lífið hér en hjá ykkur úti á landsbyggðinni, þar sem engar framfarir eru, og allt er eintóm deyfð. Það er líka meira andlegt líf hjá okkur hér, heldur en hjá ykkur. Safnaðarlíf vort stendur í blóma, og nú ætlum við að fara að koma upp háskóla. Lízt yður ekki vel á það?"

„Það er sjálfsagt nauðsynlegt fyrirtæki; en ég get varla sagt ég hafi mikið íhugað það mál ennþá."

„*Well, yes,* einmitt það. Þið látið öll vor stærstu og mest *important* málefni eins og vind um eyrun þjóta. Við hér þurfum að hugsa allt fyrir ykkur. Trúar-, safnaðar- og skólamál vort á að ganga á undan öllu. Menn *vantar* að hafa hugann á öðru æðra, og hærra, heldur en þessu *troubl-í* og umstangi fyrir daglega lífinu."

„Ég býst við að þér hafið rétt í því. En kjörum sumra er svo háttað, að þeir eiga bágt með að hefja hugann frá hinum daglegu störfum sínum til að íhuga þessi stóru framfaramál þjóðar vorrar."

„Það er líka synd að segja að alþýðan gjöri það. Mér virðist stundum, eins og hún veiti enga eftirtekt því, sem

okkar mestu og beztu menn eru að vinna. Fjölda margir íhuga það ekkert, og taka engan þátt í því, nema ef vera skyldi til að spilla fyrir.“

„Það getur líka komið af annari orsök, þessi deyfð í alþýðunni. Hún þykist vera búin að komast að þeirri niðurstöðu, að það séu vissir menn af þjóð okkar hér vestra, sem vilja ráða öllu, og hugsa fyrir þjóðina; og svo álíta menn þá bezt að lofa þeim að sigla sinn sjó, heldur en að lúta boði þeirra og banni.“

„Þetta var setning, sem ég sá honum féll ekki, enda ætlaði hann að svara mér, og bjóst ég við einhverju kröftugu; en þá vildi svo til, að í sama bili opnuðust búðardyrnar, og inn gekk maður og heilsaði upp á Mr. Johnson; hann var lágur maður vexti með rautt skegg; það var auðséð, að hann var verkamaður.

„*Evening,* Mr. Johnson,“ sagði hann. „Ég kom hingað samkvæmt umtali okkar í gær. Getið þér gjört svo vel og veitt mér áheyrn í einrúmi?“

„Já, með ánægju.“ „Heyrið þér,“ sagði hann við mig, „fyrirgefið að ég verð að yfirgefa yður fáein augnablik, meðan ég tala við þennan *gentleman.* Gjörið þér svo vel að taka þennan stól á meðan.“

Ég settist niður, og þeir gengu inn í innri skrifstofuna, og var aðeins þil á milli, og heyrði ég samtal þeirra, án þess ég hefði nokkra löngun til þess.

„*Well Sir,*“ byrjaði Mr. Johnson, „þér segist vera kominn hingað samkvæmt umtali okkar í gær?“

„*Yes,* það er ég. Ég get reyndar ekki sagt, að ég sé alveg búinn að fastráða, hvort ég eigi að *riska* því eða ekki, að leggja eigur mínar í félag ykkar. En ég hugsaði mér að tala frekara um það við yður fyrst.“

„Það er ekki nema rétt af yður að gjöra það. Maður getur aldrei verið of *careful,* þegar um þessháttar mál er að ræða. En ég get lítið meiri upplýsingar gefið yður, en þær sem ég gaf yður í gær. *Business* vort er stórt, og reikningar margbrotnir, og ég get ómögulega sagt upp á hár, hvernig þeir standa. En svo mikið veit ég, að hver, sem hefir peninga aflögu, getur ekki gjört annað þarfara við þá, en að

gjörast *shareholder* í félagi voru. Auðvitað geta ýms óhöpp komið fyrir, sem enginn getur séð fyrirfram, svo *businessið* kynni að *busta;* en það er engin ástæða til að ímynda sér það, heldur það gagnstæða, eftir því sem hagur vor stendur nú. Okkar á milli sagt, þá eru *Directorarnir* alls ekki áfram um að fá nýja *shareholders;* en af því að þér eruð góðkunningi minn, og ég vissi að þér höfðuð dálítið af peningum, sem þér vilduð koma út á góða *interest,* þá datt mér í hug að gefa yður *chance* að ganga í *businessið,* og mig grunar að peningar yðar gefi betri *interest* þar, en annars staðar. En fyrir sjálfan mig er það ekki minnsta gróðaspursmál að fá yður í félagið."

„Ég veit það, Mr. Johnson, ég veit það, að yður gengur ekki annað til en góðvilji og hugulsemi við mig. Og eftir því sem þér segið, þá er ég ekkert hræddur um peninga mína í ykkar höndum."

„*Well,* þér ráðið vitaskuld hvað þér gjörið. Ég hef gefið yður allar þær *particulars* viðvíkjandi félaginu, sem ég get í fljótu bragði. Hvað er það mikið, sem þér hefðuð hugsað að leggja í félagið, Mr. Salomonson?"

„Ég á eitthvað 200 dollars, sem ég þarf ekki að brúka. Ég hef dregið það saman með sparnaði og stöðugri atvinnu í nokkur ár, og þar sem það er aleiga mín og það eina, sem konan mín og börnin hafa að reiða sig á, ef mín missir við, þá getið þér nærri, að mér er annt um að leggja þá aðeins í það fyrirtæki, þar sem engin hætta væri á, að ég tapaði þeim."

„Það skil ég mikið vel, og það er lofsvert af yður að bera svo mikla umhyggju fyrir konu yðar og börnum. Þér eruð sparsamur maður, ég hef alltaf sagt það. Ég auðvitað vil ekki eggja yður á að leggja peninga í *business* vort. Ég vil þér séuð alveg sjálfráður. En í yðar sporum hefði ég ekki lengi verið að hugsa mig um, hvað ég ætti að gjöra."

„Ég ætla heldur ekki að vera að þvæla það lengur. Ég veit að mér er óhætt að taka orð yðar trúanleg viðvíkjandi hag félagsins. Ég veit þér viljið mér vel, og eruð einlægur, og munuð ekki ráðleggja mér nema heilt."

„Ég vona það, Mr. Salomonson. Ég vona það. Þér vitið að ég er ekki gefinn fyrir að draga menn á tálar, eða fara

með *fraud*. Svo þér hafið þá afráðið að leggja peninga yðar í *Businessið*."

„Yes, ég hef það. Og ég hef peningana með mér, svo við getum lokið businessi okkar nú strax."

„*All right*. Ég skal gefa yður *receipt* fyrir upphæðinni, og síðan senda yður hlutabréfin."

„Yes. Gjörið þér svo vel, Mr. Johnson, hérna eru peningarnir, 200 dollarar, eins og ég sagði áðan."

„Þakka yður fyrir, Mr. Salomonson, bíðið þér eitt augnablik meðan ég fylli út skjölin."

Og svo heyrði ég ruslað í pappír og urgað í penna, og eftir nokkur augnablik sagði Mr. Johnson: „Hérna, gjörið þér svo vel. Ég er yður mjög þakklátur fyrir. Þér munið eftir að koma á *shareholders*fund, sem verður í næsta mánuði."

„*Businessi* okkar er þá lokið, Mr. Johnson?"

„Yes, þér hafið öll lögleg skjöl í höndunum, til að sanna að þér eigið þessa upphæð í félaginu."

„Jæja, þakka yður fyrir. Gott kvöldið, Mr. Johnson."

„Gott kvöldið, Mr. Salomonson, og þakka yður fyrir viðskiptin. Ég vona þér fáið aldrei ástæðu til að yðrast eftir að hafa lagt peninga yðar í félagið."

Svo komu þeir fram. Aðkomumaður tók hatt sinn og fór út.

„Gjörið þér nú svo vel að koma heim með mér," sagði Mr. Johnson. „Ég loka búðinni vanalega kl. 7 og nú er hún orðin það."

„Heyrið þér, Mr. Johnson," sagði ég þegar við vorum komnir út á strætið, „ég kann betur við að segja yður frá því, að ég heyrði samtal ykkar, og varð það án þess ég hefði nokkra löngun til þess, því ég sat þar sem þér sögðuð mér. En ef það hefir verið „prívat" samtal, þá fullvissa ég yður um að það skal ekki útbreiðast eftir mér."

„*O well*, það gjörði ekkert til. Auðvitað var það ekkert *prívat* samtal, bara *business*, og þó — well það gjörði ekkert til."

„Efnahagur félags yðar er víst góður, að menn skuli vera að leggja svona peninga í það?"

„*Well yes;* það er ekki annað hægt að segja, en að efnahagur félagsins sé góður. En á hinn bóginn er það alls ekki gefinn hlutur, þó einn maður leggi peninga í eitthvert *business,* að það standi sig vel fyrir því.“

„Er það ekki? Fáir held ég leggi peninga í fyrirtæki, nema þeir viti að það standi sig vel, og peningarnir gefi góða vöxtu.“

„Já, menn geta staðið í þeirri meiningu, að þeir gjöri það. En það getur verið, þó að orð leiki á, að eitthvert *business* standi sig vel, þá sé það í rauninni rétt við að *busta.* Og komi einhver þá, sem vill leggja peninga í *businessið,* hvað getur þá *Manager* félagsins gjört, annað en að taka á móti peningunum?“

„Hann getur aðvarað manninn, og sagt honum að félagið standi illa.“

„Hann væri enginn *business*-maður ef hann gjörði það. Hann veit ef til vill ekki sjálfur nákvæmlega um hag félagsins. Bækurnar sýna ekki annað en félagið standi vel. *Business* er *business,* og það er skylda manns, og viðtekin *business*-regla í þessu landi, að fara eins langt og maður kemst í öllum viðskiptum, *eins lengi* og maður gjörir það á löglegan og ærlegan máta.“

„En það er hvorki löglegur eða ærlegur „máti“ að svíkja fé út af mönnum.“

„Það er enginn að tala um að svíkja fé út af mönnum. Skoðið þér til: Maður kemur og vill af frjálsum vilja leggja peninga í eitthvert *business,* og hvaða ástæða er fyrir félagið að fara að slá hendinni á móti þeim; það hefir allan lagalegan rétt til að taka við þeim, hvernig svo sem hagur þess er.“

„Já, en skoðið þér til: Svo framarlega sem forstöðumenn félagsins vita, að það standi illa, finnst yður þá ekki vera samvizkuspursmál fyrir þá, að taka við peningum mannsins, og gjöra hann máske öreiga?“

„Samvizkuspursmál, ha, ha, ha! Heyrið þér góðurinn minn: Samvizka og samvizkuspursmál eru orð, sem ekki gilda í hérlendum *business*-reglum, og ekki eru kennd á *business*-skólum.“

„Og þér, máttarstólpi kirkjufélagsins, talið svona.“

„Ég er enginn máttarstólpi kirkjufélagsins, þó ég sé því hlynntur, og *interestaður* í málefnum þess. Ég tala frá hérlendu *business*- og lagalegu sjónarmiði. Það er skylda manns að fara eins langt og maður kemst á ærlegan máta í öllum viðskiptum.“

„Jæja, ég ætla ekki að fara að þrátta um það við yður; ég þekki ekki *business*-reglur lands þessa.“

„Nei, það er auðheyrt. Þér eruð líka utan af landi. En nú erum við komnir heim; þetta er húsið mitt.“

Af því skuggsýnt var, gat ég ekki veitt húsinu nákvæma eftirtekt, en þó sá ég að það var mjög skrautlegt. Fyrir dyrunum var hurð úr *Mahogany*-við, en tvær langar glerrúður voru greiptar inn í hana; framan á hurðinni var plata úr silfri, og var nafn Johnsons grafið á hana.

Hann lauk upp, og við gengum inn í húsið. Við komum fyrst inn í hliðarganginn. Til hægri handar lá stigi upp á loft meðfram veggnum, en beint framundan voru dyr, og aðrar til vinstri handar. Þær dyr opnaði Mr. Johnson, og vorum við þá komnir í skrautlega stofu.

„Gjörið svo vel að fá yður sæti, og afsakið að ég verð að yfirgefa yður eitt augnablik.“

Hann fór og ég litaðist um í stofunni; allt bar þar vott um auðlegð og allsnægtir. Bogadreginn gluggi var á þeim stafni hússins, sem vissi að strætinu, og fyrir honum voru *damask*-gluggatjöld, sem náðu frá lofti og ofan á gólf. Eitt með því fyrsta, sem ég tók eftir, þegar ég kom inn, var borð, sem stóð við gluggann, og var ekki stærra en svo, að bók sem lá á því, komst aðeins vel fyrir. Bókin lá á flossvæfli, og ég stóð upp og leit á hana, og ég sá að það var — Biblían — ein af þessum stóru fjölskyldu-biblíum, bundin í svart *morocco*-leður, með nýsilfurskjöldum á hliðum og hornum, svo fögur og gljáandi, eins og hún væri fægð og burstuð á hverjum degi. Liti einhver inn um gluggann utan af strætinu, hlaut hann fyrst af öllu að reka augun í biblíuna, — „sláandi“ vottur þess, að sannkristið fólk bjó í húsinu. Ég leit svo af hinni helgu bók og innan um stofuna. Veggirnir voru allir skreyttir með olíumálverkum í dýrum umgjörð-

um. Mjúkir hægindastólar og legubekkir voru á víð og dreif í stofunni og upp við vegginn stóð fagurt og gljáandi söngborð. Liðin er nú sú tíð, hugsaði ég, þegar skilyrðin fyrir því að vera sannkristinn og guðelskandi maður voru þau, „að vera af hor og örbirgð nærri dauður." Nú lifa guðsbörn í „vellystingum praktuglega." En „sá, sem á pening sínkur er, sálina hans vér teljum farna," og mitt í þessum hugleiðingum kom Johnson inn.

„Ég sé þér eruð mikill bókamaður, Mr. Johnson," sagði ég. „Með yðar leyfi langar mig til að líta á eina eða tvær bækur í bókaskáp yðar."

„Yes, gjörið þér svo vel. Ég hefi safnað að mér töluverðu af góðum bókum. Skoðið þér þær allar, ef yður lízt. Ég ætla að ganga frá yður á meðan."

Ég gekk að bókaskápnum og tók út eina bók. Ég hélt það væri ljóðabók Matthíasar, en sá fljótt að það var „Sameiningin" í bandi. Næsta bók sem ég tók út voru prédikanir eftir Talmage, og lét ég báðar þessar bækur fljótlega á sinn stað.

Bókaskápurinn lék á ás og mátti snúa honum fyrir sér. Ég sneri honum við og tók út allþykka bók. Þetta var Björnsons: *Det flager i Byen og paa Havnen.* Ég settist niður og fór að lesa í henni.

Ég gleymdi sjálfum mér og tók ekki eftir fyr en einhver lagði hönd á öxlina á mér. Ég stóð upp og sneri mér við. Frammi fyrir mér stóð há og grannvaxin stúlka í bláum kjól. Hún hafði klippt hárið í topp, sem náði ofan á augabrýr og huldi alveg ennið; þetta var Elenóra.

„Nóra," sagði ég, „ert það þú? Ég var svo sokkinn niður í bókina, að mér varð hálfhvert við. En hvað mér sýnist þú vera umbreytt."

„Sýnist þér það? Ætli ég hafi þá tekið breytingu til batnaðar eða til hins verra. Hvað heldur þú um það?"

„Ég veit ekki. Líklega til batnaðar. En ekki sýnist mér útlit þitt betra en það var."

„Það er nú bara vitleysa úr þér. Þú varst alltaf hálfgert flón svona innan um og saman við. Það er ekki að marka, þá ég sé ekki kafrjóð í kinnum eins og ég var. Það

væri nú skárri dónaskapurinn að vera rjóð í andliti hérna í Winnipeg. Jú, ég hef tekið breytingu til batnaðar. Ég geng í kjólum af nýjasta *style* og titla og þéra fólk rétt eins og ég væri prestskona. Og ég get dansað og borðað *Ice cream* og talað *nonsense* allan liðlangan daginn. Ég segi þér satt, að ég er heima í Winnipeg-menntun."

„Ég heyri að þú ert lík sjálfri þér ennþá," sagði ég.

„Auðvitað! Hverjum ætti ég að vera líkari en sjálfri mér? En þú átt að gjöra svo vel og koma og *taka* með okkur *supper.*"

Ég gekk með henni inn í dagstofuna; þar var Mr. Johnson fyrir og frú hans og tvö börn, á að gizka 10 og 6 ára gömul.

Mrs. Johnson var þóttafull og gikksleg kona að sjá. Hún vísaði mér til sætis við borðið, og sýndist mér Winnipeg-humbug og hroki hvíla yfir henni eins og grjótfarg á saltfiski. Meðan á máltíðinni stóð talaði hún varla orð; samræðurnar voru allar milli Johnson og mín.

„Heyrið þér," sagði Johnson þegar staðið var upp frá borðum, „þér verðið í bænum á morgun og komið í kirkjuna okkar."

„Ég veit ekki. Mig langaði til að vera einu sinni við messu hjá Únítörum. Ég hef aldrei heyrt til þeirra."

„Einmitt! Þér hallist máske að skoðunum þeirra?"

„Langtfrá. Ég fer bara þangað fyrir forvitnissakir."

„Þá skal ég verða þér samferða þangað," sagði Elenóra. „Ég hef líka gaman af að koma þar."

*„O Pa!"* sagði eldri drengurinn, „ég týndi *boltanum* mínum í dag; mig *vantar* að fá annan nýjan á morgun."

*„Well, go to bed,* og ef þú verður góður, þá skal ég láta þig hafa nýjan *bolta* á morgun."

„Lesið þið kvöldbænirnar ykkar og syngið þið kvöldsálminn," sagði Mrs. Johnson. „Þið munið, að kennarinn ykkar á sunnudagaskólanum hefir sagt ykkur að gjöra það áður en þið farið að sofa."

„Við syngjum stundum kvöldsálm," sagði Mr. Johnson; „það er fagur og kristilegur siður. Komið þið með sálmabókina, börn, og syngið þið. Nóra, *open the piano.*"

Börnin sungu og Mr. Johnson með þeim. Ég veitti sérstaka eftirtekt parti úr einu versi, sem þau fóru með:

„mín vinna gekk mér vel í hag
og var án slysa þennan dag
frá birting hans að húmi.
Guð minn, þjónn þinn
færir þér af hjarta hér það hefir hann eina,
þúsundfaldar þakkir hreinar.“

Mér fannst það vera fallegt af Johnson, og eiga vel við, að hann þakkaði guði fyrir, hvað vel hann hafði matað krókinn í búð sinni um kvöldið.

Og litlu seinna kvaddi ég þau Johnson hjónin, sammæltist við Elenóru um að fara til Únítara daginn eftir og fór svo heim til mín á vatnsgrautarhúsið.



Sá, sem hefir verið staddur í Winnipeg eitthvert fagurt sumarkvöld, nokkrum mínútum fyrir kl. 7, og horft á fólkið ganga í fylkingu til kirkju — nei, ekki í fylkingu, heldur í hringiðu, því að kirkjurnar eru í öllum áttum — og horft á allan þann grúa af öllum stéttum og stigum, gráhærða sjötuga karla, sem fara í kirkju til að fá huggun af guðsorði, miðaldra hjón, sem fara, svo að nágrannar þeirra geti ekki sagt að þau hafi setið heima. Fimmtugar kerlingar, sem hafa ofan af fyrir sér með því að drekka kaffi og segja slúðursögur, miðaldra, fína herramenn, unga pilta, sem fara til að ná í einhverja stúlku til að fylgja heim í myrkrinu, ungar stúlkur, sem fara til að ná einhverjum pilti til að fylgja sér heim, þrítugar piparmeyjar og strjáling af strákum og hundum, svartklædda pilta og hvítklæddar meyjar, sem eru að æfa sig í að styðja hvort annað á lífsleiðinni, — sá, sem hefir séð þetta fara sitt í hverja áttina, þvælast hvað fyrir öðru með sálmabækur og biblíur í höndunum, hann hefir séð Wnnipeg-fólk, þegar sunnudaga guðræknis gállinn er á því á fögru sumarkveldi.

Ég var svo heppinn að lenda ekki í neinni kirkjufólksþvögu, þegar ég daginn eftir gekk með Elenóru áleiðis til

musteris Únítaranna. Þegar inn í salinn kom, sátu eitthvað 20—30 hræður eins og merkikerti á víð og dreif um salinn, en fyrir stafni sat gráhærður og virðulegur öldungur, og hvíslaði Elenóra að mér, að þetta væri „hinn heilagi faðir.“ Út frá honum, sinn til hvorrar handar, lágu tveir hundar, og þóttist ég vita, að annar þeirra mundi vera kórdjákni, en hinn meðhjálpari. Svo byrjaði guðsþjónustan. Ég hlustaði á ræðuna litla stund, og fór svo að brjóta heilann um það, hvað vitleysa manna mundi þurfa að komast á hátt stig, til þess menn gætu fengið ókeypis húsnæði á einhverjum vitskertraspítalanum.



„Heyrðu,“ sagði ég við Elenóru, þegar við vorum komin út frá „messunni,“ „mér sýndist ekki sérlega mikill „andaktar“ eða guðræknisblær á þessu fólki, sízt á hinu yngra fólki.“

„Andaktar eða guðræknisblær! Nei, auðvitað ekki. Hvað ætti það að þýða? Til hvers ætti fólk að vera að skella guðræknisblæ yfir andlitin á sér, eins og áttræðar „melankólskar“ kerlingar. Til hvers heldurðu að fólk gangi í kirkju hér í Winnipeg?“

„Nú, ég hélt það gengi í kirkju til að fræðast af guðsorði, og fá huggun af því.“

„Já, þér feilar nú þar. Það getur verið að sumt hið eldra fólk gangi í kirkju af þeim ástæðum. En unga fólkið hér í Winnipeg er frjálslyndara og lengra komið í hérlendri menntun en svo.“

„Og til hvers fer það þá í kirkju?“

„Til að sýna sig og sjá aðra, auðvitað. Hvaða erindi ætti það annars í kirkju? Piltarnir fara til að ná í stúlkurnar, og stúlkurnar fara til að ná í piltana. Það er mun þægilegra fyrir piltana að eiga stúlkurnar vísar í kirkjunni á hverju sunnudagskveldi, heldur en að þurfa að vera á þönum eins og skollatóur eftir þeim út um allan bæ. Svo hefir það líka gaman af hljóðfæraslættinum og söngnum í kirkjunni, svo það er tilvinnandi að láta sér leiðast undir ræðunum dálitla stund. Þess vegna fer fólk í kirkju. Skilurðu það ekki, *you goose?*“

„Jú, mig fer að ráma í það. Svo þú álítur að fólk veiti ekki ræðum prestanna sérlega mikla eftirtekt?"

„Ég álít að allur fjöldinn af unga fólkinu veiti þeim enga eftirtekt."

„Ég skal gjöra tilraun og vita, hvort þú hefir á réttu að standa. Þegar ég kem heim í kvöld, ætla ég að spyrja fólkið, hvað það muni úr ræðum prestanna í dag."

„Gjörðu það," sagði hún, og svo féll þetta tal niður, og ég hélt heim til mín á „vatnsgrautarhúsið."

Að ganga um stræti í Winnipeg í góðu veðri að kvöldi dags, einkanlega á sunnudagskvöldum, mun margur segja að sé hressandi fyrir líkamann; þeir, sem trúa á sálarlíf mannsins, munu segja, að það sé líka hressandi fyrir sálina. Að ganga fram hjá röðum af húsum, þar sem eitt er öðru skrautlegra, og fagrir og smekklegir blómsturgarðar blasa við manni, og blómakörfur hanga eða standa í gluggunum, og loftið ilmar af angan blómanna, en hljóðfærasláttur berst að eyrum manns innan úr húsunum, sem blandast við söng úr kanarífuglum, sem syngja í búrum sínum, — já, það getur minnt mann á ófullkomna tilveru af jarðneskri Paradís. En verði manni á að villast inn í bakstrætin, þar sem saurindum, leðju, ösku og allskonar hugsanlegum óþverra ægir saman, og loftið eitrast svo, að þeim manni, sem vanur er við að draga að sér hið hreina loft náttúrunnar, finnst hann vera knúður til að grípa fyrir vitin, þá getur manni dottið í hug að það séu einhver ferfætt dýr, en ekki menn, sem búi þar. Ef einhver gjörðist svo fífldjarfur, að skjóta því að Winnipeg-búum, að strætin hjá þeim væru góð eftirlíking af andlega lífinu þeirra, þá mundi hann verða fyrir þeirri hríð af skömmum, að það yrði nægur forði til margra ára. Blöðin mundu hamra á honum, og prestar og prestamálvélar fórna höndum til himins í heilögum viðbjóð og hryllingi yfir slíku guðleysi.

Þegar ég kom heim, var þar glatt á hjalla, margt fólk var komið og var að gaspra við heimilisfólkið.

„*Say, Bella,*" sagði einn piltur við stúlku þar, „varst þú í „Gránu" í kvöld?" (Grána er uppnefni, sem Únítarar hafa sett á íslenzku kirkjuna).

„*Yes*, ég var þar; *why?*"

„*Nothing;* var gott *music?*"

„Hreint *splendíd.*"

„Hver fylgdi þér heim?"

„*None of your business.*"

„Ræðan mun hafa verið góð hjá prestinum í kvöld," spurði ég þessa, sem hét Bella.

„Ræðan, já, það held ég. Það mun hafa verið. Jú, það var óhætt um það, hún var góð."

„Manstu hvað hann hafði fyrir texta?"

„Ónei, ekki man ég það. Þa- það heyrist svo illa, þangað sem ég sit."

Já, einmitt það. Heyrðu," sagði ég og sneri mér að manni, sem sat þar, „manstu út af hverju presturinn lagði?"

„*Well*, ónei! Það er hreint dottið úr mér. Það er líka alténd svoddan skrölt þarna uppi, sjáðu, ég er í söngflokknum."

„Stendur heima. Þá var ekki að búast við, að þú veittir ræðunni eftirtekt, fyrst þú ert í söngflokknum."

Daginn eftir fór ég úr bænum. Ég kom í búðina til Mr. Johnson og kvaddi hann og óskaði honum og „businessi" hans velgengni.

En sú ósk varð ekki að áhrínsorðum. Fáum dögum eftir að ég kom heim heyrði ég, að verzlunarfélagið „Johnson, Johnson & Co." væri orðið gjaldþrota, og það svo hroðalega, að hluthafar hefðu ekki fengið nema örfá „cent" fyrir dollarinn, og var því fleygt fyrir, að félagsstjórnin hefði gjört félagið gjaldþrota til að græða á því.

## VII.

Winnipeg, 21. apríl 18

, . . . „Ég gjöri það meira af vilja en mætti að skrifa nú. En mér finnst ég knúð til að rita, og margt væri að segja, ef ég hefði þrek í mér til þess. En það er ekki því að fagna. Höndin getur ekki ritað þau orð, sem hugurinn hugsar. Ég vildi að ég væri horfin til ykkar litla stund, að segja þér munnlega það, sem á dagana hefir drifið nú upp á síðkastið. Ég vildi ég hefði aldrei farið hingað til Winnipeg. Ég hef

aldrei óskað þess fyrr en nú, og sá tími var, að ég mundi hafa hlegið að hverjum, sem sagt hefði, að ég mundi óska þess. Maður er lengi að læra að þekkja mennina og lífið í bæjunum. Ég hef aldrei þekkt það eins vel og nú. Ég hef varið öllum þessum árum í einskisverðri baráttu fyrir lífinu, innan um svæfandi glaum og gleði, sem stórbæirnir eru fullir af. Ég var á leiðinni til framfara og menntunar áður en ég fór burt frá ykkur, en nú er komið að leikslokum og þessi einskisverða tilvera bráðum á enda, sem betur fer. Ég hafði ranga hugmynd um mennina. Ég hélt þeir væru góðir. Að minnsta kosti hélt ég, að eitthvað gott væri til í öllum mönnum. Í æsku var okkur kennt, að guðs andi og eðli byggi í manninum, en mér er næst að halda, að svo framarlega sem vondur andi sé til, þá sé það hans andi og eðli, sem býr í sumum mönnum. Og verstir og viðsjálastir eru þessir úlfar, sem kasta yfir sig kápu trúar og guðrækni, sem að sönnu láta biblíuna liggja á borðinu, þar sem allir geta séð hana, en sem ekki hlífast við að leggja bresti náungans á metaskálar, og dæma hann eftir sínu guðrækna og gikkslega höfði. Þetta fólk, sem gengur í kirkju tvisvar á hverjum helgum degi, og ávallt hefir kærleikans og mannúðarinnar orð á sínum hræsnisfullu vörum, mundi ekki hlífast við að reka umkomulausa aumingja frá húsdyrum sínum. Mennirnir eru hræsnarar, „fullir allskonar óréttvísi, flærðar, öfundar, haturs,“ eins og postulinn segir. En þetta fólk úttekur sín laun, ég ætla ekki að segja þér frekara frá því. Mér segir svo hugur um, að þetta verði hið síðasta bréf, sem ég skrifa þér. Nú þegar er ég orðin þreytt af að hugsa; nei, ekki af að hugsa, því hugsanirnar koma sjálfkrafa, heldur af að rita, það er móða fyrir augum mér, og herbergið hringsnýst. Ég hef ekki minnst á aðalefnið, sem ég ætlaði að rita þér um, og það verður að farast fyrir. Ég get það ekki. Þú fréttir ef til vill einhverntíma nákvæmar um endalok mín, því ég finn að þau færast nær. Ævin er liðin, eins og eitt augnablik, og þessu augnabliki var varið til einskis.

Mér sortnar fyrir augum. Hönd mín stirðnar og mátturinn þverrar. En ég má ekki enda bréfið svo, að ég ekki þakki þér fyrir öll góðu bréfin þín og ráðleggingarnar. Og svo

sendi ég mína síðustu kveðju til vina og vandamanna, og vona að allir gleymi mér, því að ég er ekki þess verð að nokkur maður felli tár yfir leiði mínu. Oft hefir mig langað heim, en aldrei eins og nú, þó ekki væri nema til að deyja. En það verður ekki. Hver veit nema mér í öðrum heimi verði leyft að líta niður, og svífa í kringum ykkur, eins og góður verndarengill á lífsleið ykkar" . . . .

*Elenóra*



Ég varð hálfhissa á þessu bréfi, og því fremur sem ég skildi alls ekkert í, hvernig í þessu gat legið. Eitthvað gekk að henni, og það meira en lítið, en hvað það var, það var hulin ráðgáta fyrir mig.

Svo leið eitthvað vika, og þá komu blöðin með þá frétt, að hún væri dáin, en á dauðamein hennar minntust þau ekki.

Ég skrifaði Mr. Johnson, og bað hann að segja mér það, sem hann kynni að vita um aðdragandann að dauða hennar, en ég fékk ekkert svar, og datt mér þá í hug að ég hafði heyrt, að það væri siður hjá heldra fólkinu í Winnipeg, að svara aldrei bréfum eða fyrirspurnum, sem alþýðumenn rituðu til þeirra.

## VIII.

*First gentleman*:
„What! and will such things happen?"
*Second gentleman*:
„Ask my dog, Sir! If he says aye, it will; if he says no, it will. If he only shakes his tail and says nothing, it will."
*Two Gentlemen of Verona*

Það var liðið töluvert á annað ár frá dauða Elenóru, þegar atvik kom fyrir, sem olli því, að ég frétti allt hið sanna um aðdragandann að dauða hennar, og lýk ég sögunni með því að segja frá því, enda mundi hún annars ekki geta náð tilgangi sínum.

Jón hét maður — gjörir ekki til, hvers son hann var, ég man það ekki, — hann hafði áður fyrr „á landnámstíð" numið land í nágrenni við okkur, og sezt þar að. Svo þegar bólan gekk, þá missti hann konu sína og eina stúlku á 13. ári, sem þau áttu. Eftir dauða þeirra festi hann ekki yndi

þar, seldi það lítið hann átti, og flutti til Winnipeg, og hafði þar ofan af fyrir sér með því að saga eldivið.

Einu sinni, þegar ég var á ferð, vildi svo til, að ég hitti karl þennan af tilviljun á greiðasöluhúsi, og þekkti hann mig og heilsaði mér.

„Já, hvað er nú að frétta?“ byrjaði hann; „ósköp ertu nú orðinn stór.“

„Ó, ég segi engin tíðindi. Allar fréttirnar eru sjálfsagt hjá þér.“

„Ja nei. Ég frétti ekkert. Oft hefir mig langað til að koma í gömlu átthagana og heimsækja ykkur. Mikið held ég sé nú orðið umbreytt þar síðan ég fór.“

„Ég býst við þér mundi þykja það. En ég held samt, að umbreytingin svari ekki árafjöldanum.“

„Getur verið. Margt hefir nú á dagana drifið síðan ég fór. Ég hef *lifað* þarna í Winnipeg, og verið að berjast við að hafa ofan af fyrir mér, og mér hefir tekist það hingað til. En nú er ég ekki farinn að þola að standa við sögun í gaddhörkunum á vetrum.“

„Það er ekki von, þú ert maður gamall.“

„Ég er yfir sextugt. Ég hef aldrei getað hitt þig, þegar þú hefir verið á ferðinni. Hefurðu komið til Winnipeg síðan Elenóra frændstúlka þín dó?“

„Nei, ég hef ekki komið þar. En af hverju minnist þú á hana, þekktir þú hana nokkuð?“

„Það held ég. Svo oft var ég hjá henni síðustu mánuðina, sem hún lifði.“

„Svo, þú veizt þá úr hverju hún dó, og um aðdragandann að dauða hennar.“

„Biddu guð fyrir þér. Já. Ég held það. Það gæti víst enginn sagt þér frá því greinilegar en ég, ef þú hefir ekki heyrt það.“

„Nei, ég hef ekkert heyrt um það. Ég ritaði Mr. Johnson, og bað hann að skýra mér frá því, en hann svaraði mér engu.“

„Og guðsbarnið! Það var rétt líkt honum. Hann hafði líka góða ástæðu til þess. Þeir eru allir að berjast við það, lúterskir, Únítarar og Presbýteríanar, þarna í Winnipeg, að

koma mönnum inn í himnaríki, og þeim tókst víst að senda hana þangað á endanum."

„Nú fer ég ekki að skilja þig. Þú verður að segja mér greinilega frá því öllu. Ég veit þú ert minnugur og sannorður, og óhætt að trúa þér."

„Ég skal reyna það. En ég veit varla, hvernig ég á að byrja. Það verður dálítið löng saga, ef ég á að segja frá því öllu nákvæmlega."

„Ég skal reyna að hlusta á þig með þolinmæði."

„Ég kynntist Elenóru fyrst, þá er hún var orðin vinnustúlka hjá Mr. Johnson. Ég *lifði* þar í *næstu dyrum,* og „passaði" vatn og eldivið í húsið, og marga máltíðina gaf hún mér, og marga ánægjustund hafði ég að því að tala við hana, því ekki vantaði hana gáfurnar, þó hún væri nokkuð fjörug og kát."

„Ég veit það, haltu áfram."

„Auk safnaðarfélaganna eru í Winnipeg mörg önnur félög: Kvenfélag, Söngfélag og Goodtemplarafélög. Elenóra var í einhverjum þessum félögum, ég held í Goodtemplarafélaginu, og þegar fundir voru, þá fór hún oft þangað."

„Unglingsmaður einn var þar í bænum, sem Ólafur hét. Ekki veit ég, hvers son hann var, nema hann kallaði sig Johnson. Hann var snyrtimenni, barst mikið á, og tranaði sér fram í flest málefni, sem fyrir komu. Ef einhvers staðar í bænum var dans eða skemmtisamkoma, þá mátti eiga víst, að hann væri þar, og hafði tvær eða þrjár stúlkur með sér. Ekki veit ég, hvað margar stúlkur hann hefir verið búinn að táldraga um ævina, og það veit að líkindum enginn, nema helzt hann sjálfur.

Eins og aðrir fleiri hans líkar, þóttist hann „vaxinn upp úr því," að vera í lúterska söfnuðinum; en þegar Únítarar mynduðu flokk, gekk hann í lið með þeim, og komst brátt til „valda og metorða." Ennfremur var hann í bindindisfélagi og var mesti reglumaður. Hann gætti sín að bragða aldrei vín næsta dag áður en fundur var haldinn, svo vínþefur fyndist ekki af honum, þegar á fund kæmi. En þess á milli saup hann á þegar hann vildi. Hann var bindindismaður á fundum, hófsemdarmaður næstu tvo daga á undan

fundi, og drykkjumaður (í laumi auðvitað) hina 5 daga vikunnar. Skynsemi hafði hann talsverða, og sparaði ekki að beita henni til að koma fram hrekkjum sínum og brögðum. Hann hafði eitt þetta *demoniska* andlit, og maður þurfti ekki annað en sjá hann einu sinni, til þess að sannfærast um, að hann mundi ekki svífast neins, ef honum byði svo við að horfa, til að koma fram áformi sínu.

Það var svo, eftir að ég hafði verið þarna í nágrenni við Mr. Johnson nokkurn tíma, að ég fékk veður af því, að Ólafur þessi var farinn að daðra kringum Elenóru. Ég vissi aldrei, hvenær eða hvernig það byrjaði. Hann mun hafa séð hana á samkomum eða fundum, fyrst, og fór brátt að draga sig eftir henni; hún mun hafa heyrt eitthvað af orðróm þeim, sem af honum fór, því hún hafði mestu skömm á honum og vildi ekki sjá hann.

Svo gekk meiri part sumars, að það mátti heita hann elti hana á röndum, og skrifaði henni þar fyrir utan hvert ástarbréfið á fætur öðru. Eitt átti hann verst með, og það var, að hann gat aldrei komið heim í húsið. Johnson, húsbóndi Elenóru, var strangur trúmaður, og leið ekki Únítörum að koma að staðaldri í hús sitt, og yrði Ólafi á að koma þangað, þá leituðust allir við að sýna honum bæði í orði og verki, að þeir höfðu skömm á honum.

En það sannaðist á honum, að djöfulsins börn verða ekki ráðalaus. Áður en nokkurn varði, var hann búinn að segja skilið við Únítara, og genginn í lúterska söfnuðinn, og gekk nú eins og gaddhestur fram í að styrkja málefni hans, en gjörði fyrrverandi flokksbræðrum sínum allt til skaða og skapraunar.

Brátt tókst honum nú að koma sér í mestu kærleika við Mr. Johnson. Hann varð allt í öllu með honum, og hljóp eins og skollatóa hvenær sem skyldi út um allan bæ, til að betla peninga til kirkjunnar eða skólans. Hann hætti nú að fara á dans eða aðrar samkomur, og varð fyrirmynd ungra manna í siðgæði. Nú kom hann oftar í hús Johnsons en áður, og fyrr en nokkurn varði, var hann búinn að koma svo ár sinni fyrir borð, að Mr. Johnson hafði tekið hann í hús sitt, og lofað að láta hann hafa þar fæði og húsnæði.

Nú fór allt að greiðast fyrir honum. Hann umgekkst Elenóru daglega, og var ekkert nema auðmýktin og blíðlætið. En lengi vel var engan bilbug á henni að finna. En það munu fáar stúlkur, sem geta veitt mótstöðu til lengdar, þegar þannig er sótt eftir þeim, enda hafði hann nú bæði Mr. og Mrs. Johnson með sér í ráðum. Þar kom á endanum að ég fann að Elenóra var farin að linast fyrir, og orðin öðruvísi til hans en áður.

„Nóra mín," sagði ég einn dag við hana, „mig langar til að spyrja þig að einni spurningu, og vona, að þú misvirðir það ekki."

„Nei langt frá," sagði hún, „þér er óhætt að spyrja mig að hverju sem þú vilt."

„Ég heyri að fólk er farið að fleygja því á milli sín, að þú ætlir að eiga hann Ólaf, og af því ég trúði því ekki, en leiðist að heyra fólk slaðra, þá datt mér í hug að spyrja þig að því."

„Það mun eitthvað hæft í því. En ég hélt að fólk vissi ekki neitt um slíkt ennþá. Mér sýnist Ólafur í seinni tíð vera að taka sér fram, og vera orðinn stiltur og góður piltur, svo ég áræddi að játa honum eiginorði."

„Nóra mín," sagði ég. „Ég vona að þú takir það ekki illa upp fyrir mér þó ég tali um þetta við þig; ég er gamall og þekki betur heiminn en þú. Það er auðvitað satt, að Ólafur hefir tekið mikilli breytingu til batnaðar í seinni tíð. En það kemur mér fyrir eins og glitofin blæja, sem hann er að breiða yfir sig. Ég segi þér satt, að hann hefir djúpsett hrekkjavit, og svífst einskis til að koma fram ásetningi sínum. Ég vildi þú hefðir aldrei látið undan honum, því ég er viss um hann verður þér til ills."

„Heldur þú það? Ég held að þetta álit þitt á honum sé ekki rétt. Ég hef enga ástæðu til að efast um einlægni hans, og hvernig sem fer, þá fer ég ekki að bregða orðum mínum við hann, úr því svona er komið."

„Mér dettur heldur ekki í hug að fara að telja þig á það, en varaðu þig á honum, hann er eins og úlfur í sauðargæru."

Svona féll þetta tal niður, og ég minntist ekki framar á það við hana. Ólafur var framúrskarandi góður og stima-

mjúkur, færði henni hverja gjöfina af annari og gekk með henni út um bæinn á kvöldin og á sunnudögum. Ég sá ekki til neins að aðvara hana frekar og lét allt vera, eins og ég sæi það ekki.

Svo leið veturinn og allt gekk með himnalagi á milli þeirra. En þegar út á leið, fór ég að taka eftir breytingu á Elenóru; hún fór að verða ómannblendin, gekk eins og í draumi, vildi helzt vera í einrúmi og svaraði varla, ef á hana var yrt. Það leyndi sér ekki, að eitthvað gekk að henni. Helzt vildi hún vera hjá Ólafi, og voru þau oft saman fram á nætur, ýmist heima eða úti í bæ.

Svo eftir nokkurn tíma leyndi það sér ekki, að hún fór ekki einsömul. Ólafur sat oft á tali við hana, og tók ég eftir því, að það var eitthvað, sem þeim bar á milli og þau gátu aldrei orðið ásátt um.

Eitt kvöld kom hann venju fyrri heim og spurði eftir Elenóru. Ég heyrði að hann sagði henni, að það kvöld ætti að leika víðfrægan sjónleik á leikhúsi einu í bænum og vildi að hún færi þangað. Hún hafði fyrst á móti, en fór samt, og grunaði mig illa um þá ferð, að hann skyldi vera að taka hana á leikhús, eins og hún var þá á sig komin.

Ég var lengi á stjái þetta kvöld, og eitthvað kl. 11 ætlaði ég að fara að hátta, en heyrði þá að framdyrnar voru opnaðar og Elenóra kom inn. Hún var föl og svo máttlaus, að hún gat varla staðið.

„Elenóra," sagði ég og flýtti mér til hennar, „hvað gengur að þér? Er þér illt?"

„Mér er dauðillt. Í hamingjubænum styddu mig upp stigann, ég kemst það ekki sjálf."

Ég gjörði það, og spurði hana um leið, hvar Ólafur væri.

„Hann fylgdi mér hér að dyrunum og fór svo burt. Hann kvaðst þurfa að hitta mann niðri í bæ, og fékkst ekki til að koma inn. Er fólkið háttað?"

Ég sagði að svo væri, og ætlaði að fara burt, en hún bað mig að fara ekki. „Mér er svo illt," sagði hún, „að ég þori ekki að vera ein."

„Hvenær varð þér svona illt?" spurði ég, og sagði hún mér það.

Þau höfðu farið í leikhúsið, eins og áformað var, og verið þar þangað til leikurinn var á enda. Þegar þau komu út, hafði Ólafur sagt að þau skyldu fara inn á næsta kaffihús, og fá eitthvað til þess að hressa sig á. Hún lét tilleiðast, og þegar þau komu þar inn voru engir þar fyrir; þau settust niður á legubekk, og Ólafur bað um heitt kaffi.

Svo sátu þau nokkra stund og biðu eftir kaffinu. Það var orðið áliðið, og fólkið hafði ekki búizt við viðskiptamönnum svo seint. Eftir nokkra stund spratt Ólafur upp, og gekk fram og kvaðst ætla að vita hvað kaffinu liði.

Hann kom bráðlega aftur með tvo bolla af kaffi, og setti þá á borðið. „Ég verð að koma með það sjálfur," sagði hann, „fólkið hér er svoddan slóðar." Elenóra var þreytt og sifjuð, og tók bollann, sem hann rétti henni og drakk úr honum fljótlega. Henni fannst einkennilegur keimur af kaffinu, og þegar hún var búin, kom yfir hana enn meiri víma og máttleysi en áður. Svo héldu þau á stað, en á leiðinni heim hafði henni hríðversnað, svo hún var nú yfirkomin.

Hún komst með naumindum í rúmið, og ég lagðist út af á legubekk. En brátt versnaði henni svo, að mér leizt ekki á að vera einn yfir henni. Ég fór því og vakti Johnsons hjónin og sagði þeim að Elenóra væri fárveik. Mrs. Johnson klæddi sig og fór til hennar, en ég beið niðri. Eftir lítinn tíma kom hún aftur, og sagði mér að fara og sækja lækni í flýti. Ég gjörði það, og þó leið nokkur tími þar til hann kom. Svo vissi ég ekkert frekara fyrr en um morguninn, að mér var sagt, að Elenóra hefði alið tvíbura um nóttina, andvana, og ekki nærri fullaldra.



Ég gekk inn í hús Johnsons, og voru þau Johnsons hjónin þar ásamt Ólafi, og heyrði ég það fljótt á tali þeirra, að áformið var að senda Elenóru á sjúkrahúsið.

„Mr. Johnson," sagði ég, „yður dettur þó ekki í hug að fara að flytja Elenóru burt úr húsum yðar, eins og hún er á sig komin?"'

„Og hvers vegna ekki? Hvað er á móti að flytja hana? Hún hefir langtum betri aðhjúkrun og læknishjálp þar en

hér, og svo í annan máta get ég ekki haft hana í húsum mínum, þar sem enginn er að annast hana."

„Hún getur haft allt eins góða aðhjúkrun og læknishjálp hér eins og þar. Þér hljótið þó að sjá, að það yrði aðeins til að gjöra alveg út af við hana, að fara að flytja hana nú. Mér sýnist það ekki vera nema maklegt, þó Ólafur sjái um að hún hafi góða aðhjúkrun, og fái einhverja góða konu til að sjá um hana, svo miklar þjáningar sem hún er búin að hljóta af honum."

„Hvað meinar þú með þessu, *you confounded fool,*" sagði Ólafur og snerist að mér svipmikill.

„Hvað ég meina með þessu. Hverjum öðrum en þér ætli þessi sjúkdómur hennar sé að kenna? Ætli hún hefði ekki verið öðruvísi á sig komin, hefðir þú ekki verið henni til bölvunar á lífsleiðinni?"

„Ha, ha! Þér kemur kannske til hugar, að eigna mér þessa krakka, sem hún fæddi í nótt?"

„Herra trúr! Hver ætli eigi þá annar en þú? Ég þyrði óhræddur að sverja þig föður að þeim. Þú þyrftir nú að bæta því ofan á öll þín sómastryk að reyna að flekka mannorð hennar, rétt þegar hún liggur fyrir dauðanum. Þú vilt máske bera á móti því, að þið hafið nokkurntíma verið trúlofuð?"

„Nei, ég trúlofaðist henni með þeirri hugmynd, að hún væri heiðvirð stúlka."

„Og þú þarft ekki að vera að neinum lygadylgjum um hana. Hún var heiðvirð stúlka og verður alltaf, þó henni yfirsæist í því að trúa öðru eins varmenni og þú ert. Og svo ætlar þú, eftir að þú ert búinn að véla hana og tæla, að bæta því ofan á aðra illmennsku þína, að gangast ekki við því, að hún væri þunguð af þínum völdum. Ætli þú hafir ekki sett þennan sjúkdóm á hana af ásettu ráði? Ég tryði því bezt að þú hefðir byrlað henni einhverja ólyfjan í kaffinu í gærkveldi."

Hann hrökk saman, eins og að hann hefði verið sleginn. „Ég sit hér ekki lengur undir þessum skömmum," sagði hann; „það væri maklegast að ég gæfi þér tækifæri að sanna orð þín fyrir rétti."

„Gjörðu það, ef þú þorir," sagði ég. „Þú kemur þó líklega að sjá hana; verið getur að hún hressist við að sjá þig."

„Ekki held ég það," greip Mr. Johnson fram í. „Hann hefir öðru háleitara starfi að gegna, en að vera að því. Hann hefir lofað okkur, að fara út um bæinn í dag, að safna peningum til kirkjunnar."

Hann fór, og varð ekki af kveðjum. Ég horfði á eftir honum ofan strætið, og sá að hann fór ofan í vasa sinn, tók þar upp glas, að mér sýndist, og fleygði því í strætisrennuna.

„Mr. Johnson," sagði ég, „þér gjörið það fyrir mín orð, að lofa Elenóru að vera. Ég skal hjúkra henni sjálfur og borga læknishjálpina, ef Ólafur ekki vill gjöra það."

Hann hugsaði sig um. „Ég skal láta hana vera núna, en ég vil ekki hafa þess háttar fólk í húsum mínum til lengdar."

„Hvað! Dettur yður í hug að trúa sögu Ólafs?"

„Ég hef enga ástæðu til að rengja orð hans. Hann er í alla staði vandaður og heiðvirður maður."

„Guð komi til! Þér ættuð þó að vita betur, og þekkja Elenóru betur en svo. Það er ósköp til þess að vita, hvað varmennska mannanna getur komizt á hátt stig."

Ég fór út og gekk ofan strætið, þangað sem mér sýndist Ólafur kasta glasinu. Mér hafði ekki missýnst, þar lá tómt glas, með nokkrum dropum af einhverjum meðalalög í.

Ég tók glasið og stakk því í vasa minn, og gekk síðan upp í herbergi Elenóru. Hún benti mér að koma, og spurði mig, hvort Ólafur væri ekki niðri. Ég hafði ekki hjarta að segja henni samtal okkar, og sagði aðeins að hann væri farinn út í bæ aftur.

Ég sá að henni féll það þungt, eins og eðlilegt var. Læknirinn var að fara í burtu, en lofaði að koma aftur fljótlega; ég fylgdi honum fram úr herberginu.

„Herra læknir," sagði ég, „þér hafið gott vit á meðulum; mig langar til að sýna yður hér meðalaglas, og vita, hvaða meðal hefir verið í því."

„Það er velkomið, en heyrið þér: Vissuð þér til að Elenóra væri að brúka nokkur meðul áður en hún lagðist?"

„Ekki vissi ég til þess."

„Og var við allgóða heilsu?“

„Það held ég, svona eftir hætti.“

„Hm. Lofið þér mér að sjá þetta meðalaglas.“ Hann tók það og lyktaði úr því og las á miðann. „Hvar fenguð þér þetta glas?“ spurði hann svo.

„Herra læknir, ég fann það.“

„Og hvað gengur yður til að vera að grennslast eftir, hvaða meðal hafi verið í því?“

„Okkar á milli sagt, og ég segi yður það í trúnaði, held ég að þetta glas eigi eitthvað skylt við sjúkdóm Elenóru.“

„Á haldið þér það; svo þér ímyndið yður að hún hafi tekið inn þetta lyf, sem var í glasinu?“

„Ég er ekki viss í því, en ef svo hefir verið, þá hefir hún tekið það inn sér óafvitandi, og nú, herra læknir, viljið þér gjöra svo vel, að segja mér, hvaða lyf hefir verið í glasinu?“

„Hafi hún tekið, eða verið látin taka inn þetta lyf, þá hefir hún tekið inn *fóstureyðandi meðal,* hið sterkasta sem til er.“

„Eruð þér nú viss um það.“

„Alveg viss, og mig grunaði undir eins, að hún mundi hafa tekið inn eitthvað af þesskyns lyfjum. Vitið þér, hver byrlaði henni þau?“

„Ekki svo ég geti sannað það. Ég verð að biðja yður, herra læknir, að þegja yfir þessu fyrst um sinn.“

Hann lofaði því og fór.

„Nóra mín,“ sagði ég þegar ég kom inn til hennar aftur, „ég er hræddur um, að Ólafur hafi byrlað þér einhverja ólyfjan í kaffinu í gærkveldi.“

Hún leit upp með hræðslusvip. „Af hverju heldur þú það?“ spurði hún lágt.

„Ég fann þetta glas, og Ólafur fleygði því úr vasa sínum. Læknirinn segir, að það hafi verið í því fóstureyðandi meðal, eitt hið sterkasta. Heldur þú það geti skeð, að Ólafur hafi gefið þér það inn?“

„Það hefir sjálfsagt verið. Það var ekki sjálfrátt hvað ég veiktist snögglega. Hann var í langan tíma búinn að

reyna að fá mig til að taka inn það meðal, en ég afsagði það alveg."

„Og þá hefir hann haft það svona, það var rétt eins og við var að búast af honum. En það tjáir ekki að tala um það. Ég vona að guð gefi að þér batni."

„Mér batnar ekki," sagði hún mæðulega, „ég kæri mig heldur ekki um það."

Ég var svo yfir henni allan daginn. Enginn heimsótti hana, nema seint um daginn kom læknirinn aftur, og skoðaði hana og skildi eftir meðul.

## IX.

„Guð, ég þakka þér, að ég er ekki eins og aðrir menn: morðingjar óráðvandir, hórkarlar, eða eins og þessi tolleimtumaður. Ég fasta tvisvar í viku, og geld tíund af öllu sem ég á."

*Farisei*

Morguninn eftir var hún lakari; ég fór ofan og hitti þau Johnson hjónin í stofunni.

„Mrs. Johnson," sagði ég. „Viljið þér ekki koma og sjá Elenóru, hún er öllu lakari nú, og þér kynnuð að geta hjúkrað henni betur en ég."

„Ég vil láta fara með hana á sjúkrahúsið," sagði Mr. Johnson, „það er að öllu leyti betra fyrir hana. Mrs. Johnson er svo *nervous*, að hún getur ekki verið yfir sjúklingum."

„Ég býst við," sagði Mrs. Johnson, „að það hjúkri henni aðrir betur en ég. Ég vildi helzt hún væri komin burtu úr húsinu; það er ekki fyrir heiðvirt fólk, og ekki heldur samkvæmt guðsorði, að ljá slíkum ólifnaðarkindum húsaskjól."

„Mrs. Johnson," sagði ég. „Ég er hissa á að þér skulið líða Ólafi að ljúga upp á stúlkuna í andaslitrunum. Þér ættuð þó sannarlega að vita betur. Og af því þér minntust á guðsorð, þá vil ég leyfa mér að spyrja: Er manni ekki boðið í guðsorði að hugga ístöðulitla, aðstoða veika og líkna þeim, sem þjáðir eru? Ég veit þið vitið það; þið, sem eruð svo guðelskandi fólk."

„Hvað er þetta," sagði Mr. Johnson; „hvað meinið þér með þessum lestri? Ætlið þér að gjörasti prédikari yfir okkur? Hafið þér nokkuð út á breytni okkar að setja? Við hlýðum á guðsorð tvisvar á hverjum sunnudegi, og förum á

sunnudagaskóla líka; engir leggja fram meiri peninga guðsorði til eflingar en við. En ég segi yður satt, að ég vil ekki hafa Elenóru í húsum mínum. Guðsorð býður manni að hafa ekki mök við glæpafólk eða vændiskonur, og ljá þeim ekki húsaskjól."

„Og auk þess," bætti Mr. Johnson við, „kastar það skugga á okkur, að ljá slíku fólki húsaskjól; við höfum reynt hingað til að lifa eins og sannkristnum er boðið."

„Jæja," sagði ég; „ég skal ekki biðja ykkur að hjálpa henni framar, það verða líklega aðrir til að líkna henni og ljá henni húsaskjól, þó þið viljið ekki gjöra það."

Með það fór ég. Ég var hræddur um, að ég kynni að segja eitthvað meira og verra við guðræknu hjónin, ef ég tefði lengur.

Læknirinn kom aftur, og með honum kona, sem hafði verið fengin til að annast Elenóru; en Ólafur lét ekki sjá sig.

Þegar læknirinn fór, spurði ég hann, hvort hann héldi að hún mundi lifa, og kvaðst hann vona það, „ef hún væri ekki hreyfð, og yrði ekki fyrir neinni geðshræringu."

Ég held líka að hún hefði lifað, hefði ekki þá komið fyrir atvik, sem reið henni alveg að fullu; enda var það nóg til að gjöra út af við hraustari menn en hún var þá.

Það var seint á þriðja degi eftir að hún lagðist, að þjónustustúlkan nýja hjá Mrs. Johnson kom og sagði frá því, að fólk væri niðri, sem vildi sjá Elenóru; og af því ég hélt að það mundi ekki skaða hana, lét ég þau koma upp. Það var ein heiðurskona úr söfnuðinum, og með henni var ónefndur „gentlemaður" til fylgdar.

„Ég kom," byrjaði heiðurskonan, „til að sjá Elenóru; ég heyrði sagt hún væri ákaflega veik."

„Hún er mjög aum," sagði ég, „það er vel gjört af yður að koma og sjá hana."

„Það er bágt. En það versta er þegar fólk hefir engu öðru en sjálfu sér um að kenna. Þegar það hvorki vill hlusta á guðsorð né ráðleggingar góðra manna, þá er ekki von að vel fari."

„Heyrið þér," sagði ég, „þér megið ekki tala svona; þér sjáið hún þolir það ekki."

„Það lítur út," hélt hún áfram, „sem kæruleysi og ólifn-

aður sé að fara í vöxt, einkanlega meðal þessara ungu drósa hér í Winnipeg. Ekki er það þó af því, að þær eigi ekki kost á að ganga betri veg, svo oft heyra þær guðsorð; en þær skeyta því ekki. Þeim þykir betra, eins og þessari stúlku, að ganga áfram í léttúð og saurlifnaði, unz guðs refsandi hönd hittir þær, og varpar þeim til jarðar mitt í syndum sínum."

Ég varð nú orðlaus og leit á Elenóru. Hún lá hreyfingarlaus og starði í sífellu á heiðurskonuna.

„Það fer að verða heil kynslóð," hélt hún nú áfram, „af þessum hórgetnu börnum, sem vaxa upp meðal Íslendinga hér í Winnipeg. Þær sjá um það þessar ungu drósir. Ég er orðin þreytt og örg af að halda áminningarræður yfir þeim, því það er eins og að berja í klett. Ég fyrirverð mig í hvert skipti og ég sé eitthvað af þessum hórgetnu afkvæmum. Það má þakka guði fyrir, þegar hann sýnir þá miskunnsemi, að eyðileggja slík afkvæmi, áður en þau lifna og vaxa upp sér sjálfum og þjóðinni til skammar. Er þetta ekki satt, Mr. Eggertson?" sagði hún við fylgdarmann sinn.

Mr. Eggertson hóstaði til samþykkis.

„Já, vissi ég ekki," hélt hún áfram. „En svo er nú eitt þessu viðvíkjandi, sem tekur út yfir allt annað. Það er þegar þessar ólifnaðardækjur fara að reyna að klemma faðerni þessara afkvæma sinna upp á heiðvirða íslenzka pilta, rétt til þess að reyna að fyrirgjöra mannorði þeirra, og draga þá niður í sama fyrirlitningar- og vanvirðudíkið og þær sjálfar eru í. En það er bótin að það dugar ekki. Fólk veit betur en að trúa sögum þeirra. Það eru hérlendu „hótelpiltarnir" og „dátarnir", sem þær samlaga sig við, og gjóta svo þessum óburðum inn í heiminn. Gott ef þær *flirta* ekki við svertingja líka. Ég heyrði sagt, að annað þetta afkvæmi hefði verið svart. Því þeim nægir aldrei að eiga eitt; þær þurfa að eiga tvö í einu, og þá vitaskuld sitt með hvorum. Já, ævinlega hreint sitt með hvorum."

Nú áttaði ég mig. „Gáið þér að yður," sagði ég, „að tala ekki svona ógætilega; stúlkan þolir slíkt ekki, hún er svo fárveik."

„Það er þýðingarlítið," byrjaði hún aftur, eins og hún hefði ekki heyrt mig tala, „þó vissir guðelskandi menn, af þjóð okkar hér vestan hafs, séu að reyna að halda þjóð okkar

upp úr skarninu. Það er þýðingarlítið, þó þessu ólifnaðarfólki sé lesið guðsorð á hverjum sunnudegi, og áminnt á hverjum virkum degi á bróður- og systurlegan hátt. Það sekkur æ dýpra og dýpra í svívirðinguna og reynir að draga aðra með sér. Hver ætli til dæmis trúi því, að hann Ólafur, jafn guðhræddur og góður piltur og hann er nú orðinn, og sem allt gjörir til að hjálpa okkar góða málefni áfram, hafi verið faðir þessara sómasamlegu afkvæma, sem þessi heiðursdrós gaut í heiminn hérna um nóttina?"

„Heyrið þér," sagði ég, „ef þér ekki þagnið nú, og farið út, þá skal ég, þó gamall sé, leggja hendur á yður og koma yður út úr húsinu." „Og að þér," sagði ég við manninn, „skuluð ekki skammast yðar að standa hér og heyra hana ausa úr sér skömmum yfir deyjandi stúlku."

„*Well,*" sagði hann; „það þarf að áminna þetta fólk. Guðsorð . . . . ."

„Farið þér út, ég hlusta ekki á yður."

Frúin talaði eitthvað um dóna, og rauk á dyr, og maðurinn á eftir. Ég fylgdi þeim ofan stigann.

„Ég skal ekki heita ykkur miklu, titla- og þérugheitakvikindin ykkar," sagði ég; „en mig gilti einu þó alþýðan fengi einhverntíma að vita, hvernig þið hafið komið fram við dauðveika stúlku."

Með það fóru þau út, og ég læsti hurðinni á eftir þeim.

## X.

„This is the last of Earth."
*John Q. Adams*

Mannlegt líf hangir á veikum þræði, jafnvel þegar heilsa og kraftar sýnast óbilandi. En þegar veikindin eru búin að fá svo mikið vald yfir líkama mannsins, að tvísýnt þykir að lífsaflið muni bera sigur úr býtum í baráttunni við eyðingarafl dauðans, þá þarf ekki annað en blása köldum anda á hinn sjúka, til þess að lífsaflið leggi á flótta fyrir fullt og allt.

„Ég sneri aftur inn til Elenóru," hélt Jón gamli áfram, „og sá nú að hún hafði fallið í hálfgert dauðamók, lá hreyfingarlaus með aftur augun, og ekkert heyrðist nema lágt vein í hvert skipti og hún dró andann.

Meira en klukkustund sátum við yfir henni í þessu

ástandi; þá sá ég fljótlega snögga breytingu koma yfir hana; blóðið hljóp fram í andlitið, hún hreyfði sig snögglega, og þegar hún lauk upp augunum, sá ég, að hún var búin að missa ráðið. Ég laut niður að henni, en hún þekkti mig ekki, og baðaði út höndunum á móti mér."

„Hvað er þetta; því er ég höfð í þessari prísund? Af hverju standið þið þarna og glápið svona á mig? Þið ætlið að taka mig í burtu frá Ólafi; það er ykkur að kenna, að hann kemst ekki inn. Takið þið burt þessi illyrmi sem skríða á gólfinu. Því lútið þið svona ofan að mér? Þið ætlið bæði að gjöra mér illt. Ólafur, hvar ertu? Ég veit þú ert fyrir utan dyrnar, og þetta fólk hamlar þér frá að koma inn til mín. Því dimmir svona í húsinu? Nei, það er satt, það er komin nótt, og dagurinn er liðinn, og myrkur — æ takið þið myrkrið burt. Hví fór hún burt með börnin mín? Ætli hún hafi viljað sýna Ólafi þau? Hann hefir viljað sjá þau, því hann fær ekki að koma inn, og verður alltaf að standa fyrir utan dyrnar. Hvað er þetta? Eru það barnsleiði? Voru þau grafin ofan í jörðina svo ég næði þeim ekki? Svart! hún sagði að annað hefði verið svart. Sá hún þau, — og hún sagði að, — guð! hvað sagði hún? Ég sé ekkert, ekkert nema myrkrið og þessi illyrmi, sem skríða allt í kringum mig. Hvaða rangali er þetta? Ekkert nema mold og myrkur á allar hliðar. Ólafur, hví hleypur þú svona á undan mér? Það varst þú, sem fylgdir mér hingað. Nei, hann er að byrgja mig inni, og börnin mín, hvar eru þau? Hún fór burt með þau. Ljós! æ komið þið með ljós. Það er hér ekkert annað en mannabein og mold. Ólafur, lof mér að ná í þig, svo ég komist burt. Hví hleypur þú svona á undan mér? Æ hann er horfinn, sækið þið hann. Hvaðan komið þið? Eruð þið líka byrgð inni eins og ég?"

Nú þagnaði hún nokkra stund, eða talaði svo ótt og lágt að ekki heyrðist orðaskil; svo hélt hún áfram:

„Hvaða skelfileg þruma var þetta? Og þó leiftraði ekkert ljós. Hvar er ég? Er ég orðin villt? Óttalega eru trén há, og ég sé ekkert fyrir myrkrinu. Ég rata ekki heim. Var þetta ljós í skóginum? Ég er að sökkva í forina. Mamma, er þetta þú? Náðu í mig áður en ég sekk niður. Æ, ég heyri til úlfa í kringum mig. Hvaða brak var þetta? Trén eru að falla á mig. Mamma, komdu og hjálpaðu mér. Skógurinn er að

hrynja. Eruð þið hér líka; eruð þið villt eins og ég? Því eru engar árar í bátnum? Æ, öldurnar ætla að drekkja mér. Ólafur, komdu og taktu mig; sérðu ekki að bátnum er að hvolfa? Vill enginn hjálpa mér? Ég er að sökkva í öldurnar. Pabbi! mamma! Hví standið þið þarna og horfið á mig drukkna og bjargið mér ekki? Nei, enginn hjálpar. Ég á að fara að deyja, við eigum öll að fara að deyja. Ólafur! hvað léztu í kaffið? Mér er orðið dauðillt af því. Hvað gjörðir þú við börnin okkar? Eru þau þarna niðri? Ég fer niður til þeirra. Æ, hann er að moka mold ofan á mig . . . . ."

Ég hafði fullt í fangi með að halda henni frá að æða upp úr rúminu, svo ég bað konuna að sækja lækninn í flýti, og gjörði hún það; en Elenóra hélt áfram sama óráðstalinu. Eftir litla stund kom konan og læknirinn með henni; það var farið að líða á daginn, og er hann hafði gefið henni nokkrar inntökur, tókst honum að fá hana til að falla í svefn, eða réttara sagt í dá.

„Hún hefir orðið fyrir einhverri mikilli geðshræringu," sagði læknirinn.

„Já," sagði ég; „það kom hér inn kona og talaði nokkuð hastarlega til hennar."

„Og hvað sagði hún við hana?"

„Ég get varla farið að lesa það upp fyrir yður; það voru yfir höfuð tómar skammir og illyrði."

„Og hver var þessi kona?"

„Herra læknir, ég álít bezt að þegja yfir því. Það er komið sem komið er; haldið þér að Elenóra lifi?"

„Ekki hef ég hugmynd um það. En þegar hún vaknar, þá verður hún að líkindum búin að fá rænu; ef hún vaknar þá á annað borð."

Síðan fór læknirinn, en við sátum yfir Elenóru. Hún lá í þessum svefni fram eftir nóttinni, og þegar á leið, var varla hægt að merkja að hún drægi andann. Ég sagði konunni að fara að sofa, en sat einn yfir henni.

Klukkan tvö um nóttina lauk hún upp augunum. Ég sá að hún var búin að fá rænuna, svo ég laut niður að henni og spurði, hvernig henni liði.

„Ég finn ekkert til, mér er batnað," sagði hún svo lágt, að ég heyrði það varla.

Ég vissi hvaða tegund af bata það var. Deyjandi maður fær stundum linun rétt fyrir andlátið.

Eftir nokkra stund leit hún upp, og sá ég á augnaráði hennar að hana langaði til að segja eitthvað, svo ég laut niður að henni.

„Mig langar til að — að tala við hann — Ólaf, rétt fáein orð — áður en ég dey.“

Ég segi það satt, að ég tók það nærri mér, að segja henni frá því, að Ólafur hefði farið á *Picnic** daginn áður, og væri ókominn til baka.

Hún stundi við og spurði aftur: „Var það satt að hann — neitaði — faðerni — barnanna?“

„Góða mín,“ sagði ég, „fástu ekki um hvað hann segir; við vitum betur en að trúa honum.“

Hún fór að gráta, og ég kraup niður við rúmið.

„Þú ert í guðs höndum, Elenóra mín, reyndu að biðja fyrir þér.“

„Ég get ekki beðið,“ sagði hún svo lágt að ég heyrði það varla, „bið þú guð fyrir mér, ég get það ekki sjálf.“

Ég las yfir henni andlátsbæn deyjandi manns og síðan „Faðir vor.“

Dauðaþögn var í herberginu og dauðinn var ekki langt frá mér þá.

Þegar ég var búinn að lesa þessar bænir, stóð ég upp og leit á hana; hún horfði með hálbrostnum augum á mig; andlitið var nábleikt og ég sá hún var að deyja.

Ég laut niður og kyssti hana á ennið, sem kuldi dauðans var nú að gagntaka. Síðan lokaði ég augum hennar og fól sál hennar guði.



Morguninn eftir hitti ég Ólaf af tilviljun, þegar ég kom ofan.

„Ólafur,“ sagði ég; „Elenóra er dáin, þú veizt eins vel og ég, af hvaða orsök hún dó, en taktu nú eftir því, sem ég segi þér: Ef þú ekki sérð sómasamlega um útför hennar, þá skal ég hengja þig sjálfur, ef enginn annar vill gjöra það.“

*„*Picnics*“ eru skemmtisamkomur, sem haldnar eru undir beru lofti, og sækir fólk þær oft langar leiðir. —*Höf.*

Hann svaraði engu, en þó sýndist mér hann veita orðum mínum eftirtekt; enda frétti ég litlu síðar, að hann ætlaði að sjá um útför hennar. Johnson sagði mér það, og gat þess um leið, „að það væri rétt samkvæmt valmennsku Ólafs að gjöra það, eftir allt, sem á undan var gengið."

Daginn, sem átti að jarðsetja, fór ég í kirkju. Af ástæðum, sem Ólafur þekkti bezt sjálfur, fékk hann enskan prest til að jarðsyngja hana, og tala yfir líkinu nokkur orð í kirkjunni. Fáir voru viðstaddir, nema líkmennirnir og nokkrar nánustu vinstúlkur hinnar látnu. Ég veitti ræðu prestsins eftirtekt. Hún var svo einkennileg, að ég fór til hans og bað hann að gefa mér kafla úr henni uppskrifaðann, og gjörði hann það. Kaflinn er svona, og leynir það sér ekki, að hann vissi hvað hann átti að segja:

. . . . „Því að hér frammi fyrir oss, bræður og systur í drottni, hvíla nú hinar jarðnesku leifar þessarar ástkæru systur vorrar, sem eftir miklar þjáningar og stríð er nú búin að fá lausn, og inngengin í friðarins heimkynni. Hún bar þjáningar sínar með kristilegri þolinmæði og undirgefni undir guðs vilja; því hún vissi að öll vor veikindi, og allt vort mótlæti hér í heimi, kemur frá guði, og hann sendir oss það í gæzkuríkum tilgangi, til að leiða oss til sín á ný, þegar vér villumst af hans vegum, og látum heiminn með hans lystisemdum og ginningum táldraga oss, og koma oss til að gefa tauminn lausan við girndir vorar og tilhneigingar. Ennfremur viljum vér samhryggjast með þessum sártleikna eftirþreyjandi *bróður* hennar, sem nú er að fylgja ástkærri systur til hins síðasta legurúms, og sem elskaði hana með þeirri falslausu ást, er þeir einir þekkja, sem sífellt hafa guð og hans heilaga orð fyrir augum sér. En þó að hann verði nú hér að sjá henni á bak, þá huggar hann sig við þá von, að hitta hana ásamt öllum ástfólgnum á landi lifenda, hjá guði og öllum útvöldum. Amen." —

Svo mörg voru þessi orð.

„Og svo að endaðri ræðunni," hélt Jón gamli áfram, „var líkið borið út úr kirkjunni. Ég var svo þreyttur, að ég treysti mér ekki að fara og sjá hana lagða í gröfina, svo ég fór heim til mín."

Hér endaði Jón gamli sögu sína. Við sátum báðir þegjandi nokkra stund, svo stóð ég upp.

„Þakka þér fyrir söguna," sagði ég. „Ég veit þú ert minnugur og sannorður, en nú langar mig til að spyrja þig að einu: Hvað varð af Ólafi eftir þetta?"

„Ólafur," sagði Jón um leið og hann stóð upp. „Hann er í Winnipeg, og kominn aftur í flokk Únítaranna, þar sem hann var áður. Hann er enn líkur sjálfum sér, og tekur eina stúlkuna, þegar hann er orðinn leiður á annari."



Þegar ég var síðast í Winnipeg, ásetti ég mér að fara og sjá leiði frændstúlku minnar; það var komið kvöld þegar ég gekk á stað norður í St. Johns grafreitinn, sem er nokkuð út úr bænum.

Umsjónarmaður kirkjugarðsins sýndi mér leiðið. Hann fann það eftir nafninu, því leiðin eru öll númeruð. Það var utarlega í grafreitnum og sokkið niður og ekki auðkennt með svo miklu sem trékross.

Ég settist niður hjá leiðinu, og mér datt í hug, hvort hin dána mundi ekki hafa verið lifandi nú, ef hún hefði verið hjá okkur út á landsbyggðinni, og aldrei farið inn í fjöruga lífið í Winnipeg. Og ósjálfráð gremjutilfinning vaknaði hjá mér, þegar ég hugsaði um manninn, sem hafði verið orsök í dauða hennar; manninn, sem eins og presturinn komst að orði í líkræðunni, hafði „elskað hana með þeirri falslausu ást, er þeir einir þekkja, er sífellt hafa guð og hans heilaga orð fyrir augum sér."

Ég hélt á dálitlum blómkransi og lagði hann á leiðið. Það er að líkindum sá eini blómkrans, sem það leiði hefir nokkurn tíma skreytt.

Til suðurs lá bærinn, og upp af honum steig reykjarmökkur, sem dró sig í loftinu saman í eitt ský, og grúfði svo yfir borginni, eins og syndirnar forðum yfir Ninive. En í austurátt mætti auganu þéttur skógur, sem lækkaði og fjarlægðist þegar norðar dró, og hvarf síðast, eins og blá lína út við sjóndeildarhringinn.

Og allt í einu duttu nokkrir kaldir og stórir regndropar

úr loftinu. Þykkur skýflóki kom frá vestri og leið til austurs. Svo fjölguðu droparnir, unz þeir virtust samlaga sig í einn rennandi straum, og loftið rauk eins og sjór í ofsaveðri, og svo fór regnið að minnka, straumurinn breyttist í dropa aftur, sem duttu kaldir og þungir til jarðar.

En út við sjóndeildarhringinn í vestrinu braust sólin fram, og stafaði geislum sínum um austurloftið, sem enn var svart, eins og blek. Svo reis friðarbogi í skýjunum, sýndist fyrst byrja við jörðina í suðri, og færast upp í loftið unz hann var kominn í hálfhring að jörðinni aftur; svo dofnuðu litirnir, þar sem þeir höfðu fyrst byrjað og dóu út eins og ljós, þangað til þeir voru alveg horfnir, og ekki sást annað en skýið biksvarta, sem leið með hraða til austurs undan vindinum.

---

# Amerísk gestrisni

Það var árið átján hundruð og — ja, það er bezt ég segi grænkál, úr því ég get ekki fyrir víst munað, hvaða ár það var. Grænkál er hvort sem er algengt ártal, og allir vita hvað það þýðir. Já, það var árið átján hundruð og grænkál.

Hvað gamall ég var, man ég ekki heldur. En ég hef að líkindum verið eitthvað frá 15 til 20 ára. Ég var í vist á prestssetri einu, og hafði þann heiðarlega starfa á hendi, að hirða klárinn prestsins, og keyra út með náðugu frúna, þegar henni þóknaðist að bregða sér ofan í bæinn að verzla, eða heimsækja vinkonur sínar.

Húsbóndi minn hét séra Long, og það er óhætt að segja, að hann var í öllu heiðarlegur maður, og breytti í öllu sínu líferni, eins og hverjum trúum drottins þjóni ber að breyta. Hann gekk daglega í hárfínum, hrafnsvörtum fötum, með hvítan kraga um hálsinn, sem hnepptur var að aftan; og framan á maganum hafði hann sjálfsagt tvo fjórðunga af ístru — eins og allir prestar eiga að hafa.

Hann var einn af þeim fáu prestum, sem hefja hugann yfir þennan heim, og ekki hirða um hans gæði. Hann dró fram lífið á þrjú þúsund dollurum um árið, og átti stórt og skrautlegt hús, með mörg hundruð dollara virði af dýrum húsbúnaði. Hann reyndi líka að halda saman þessum litlu reitum, sem hann átti.

Hann var ekki eins og þessir gömlu, heiðarlegu íslenzku bændur heima á ættjörðu vorri, sem láta hús sín ætíð standa opin fyrir gestum og þurfamönnum, og greiða þeim allt, sem þeir geta í té látið, án endurgjalds. Séra Long var kominn hærra í menntun heimsins en það. Hann hafði hljómbera í húsinu sínu, og ef fátækling bar að dyrum, og ef hann vildi ekki með góðu móti fara, þá voru honum gerð fljót og góð skil, á þann hátt, að það var hringt í hljómberann eftir lögregluþjóni, og innan fárra mínútna var sá allslausi kominn þangað sem hann átti að vera, samkvæmt hérlendum hugsunarhætti — í fangelsið.

Já, hann var sannnefnt guðsbarn, hann séra Long; og eins var frúin. Einu sinni á hverju ári gengust þau fyrir samskotum til kristniboðs í Afríku, því svertingjarnir þurfa að komast inn í himnaríki, rétt eins og við englarnir; en til að koma þeim þangað, útheimtist bæði púður, biblíur og brennivín, og það kostar allt peninga.

Einn var sá dýrgripur, er séra Long þótti vænna um en annað í eigu sinni, og munu margir geta til, að það hafi verið biblían. En það var ekki. Það var vasaúr úr gulli, og við það hékk löng og digur festi úr sama efni, með ljómandi hjartamynduðu nisti, alsettu að utan með röð af ofursmáum demöntum, sem glitruðu eins og smástjörnur, þegar dimmt var orðið. Það var sagt, að nistið sjálft hefði kostað minnst 75 dollara.

Enginn skyldi nú ætla, að slíkur maður og séra Long, sem auðvitað hafði hugann í allt annari átt en við þessa heims gæði, hefði farið að verja fé sínu fyrir slíkan hégóma, eins og gullúr með demantsnisti er. Nei, það stóð öðruvísi á því. Og af því nisti þetta á svo mikinn þátt í sögunni, verð ég að segja frá, hvernig það var til orðið. Úrið með nistinu var heiðursgjöf frá hinum kristnu konum í söfuði hans, fyrir margra ára erfitt starf með lítil laun.

Hinar heiðruðu kristnu konur í þessu landi mynda alloft félög, er þær nefna *Ladies Societies.* Í söfnuði séra Longs var eitt slíkt félag, — eins og á að vera í hverjum sannkristnum söfnuði.

Stefna slíkra félaga er nú fyrst og fremst sú, að heita kvenfélag. Í öðru lagi, að upphefja sig sjálfar — ef aðrir vilja ekki gera það — og hafa úti allar klær til þess að ná í lofgrein í blöðunum um sig, eða lofræðu hjá prestinum.

Þessi kvenfélög hafa ellefu boðorð. Hið ellefta er þeirra æðsta boðorð, og hljóðar þannig:

„Þú átt að bera ótakmarkaða lotningu fyrir presti þínum, og hlýða honum, og vera honum samþykk í öllu. Þá mun hann í ræðum sínum geta þín að góðu, og þú munt heiðruð verða og mikils metin í landinu.“

Og eitt af þessum heiðarlegu félögum var í söfnuði séra Longs. Og það skeði, að eitt sinn, þegar þær gengu á

fund, þá kom það til umræðu, að aldrei hefði verið á þær minnzt, hvorki í blöðunum eða af stólnum, í meira en sjö mánuði; þeirra hefði, útsagt, ekki verið getið að neinu.

Hinn síðasti bitlingur, sem þær höfðu fengið, var þegar þær sendu fulla körfu af brauðskorpum og mygluðum osti til sjúkrahússins. Féhirðir hafði sent þeim þakkarávarp í blaðinu, og kryddað það með skjalli og lofi fyrir dugnað þeirra, eins og skylda hans var að gera.

En svo höfðu liðið sjö mánuðir, heilir sjö mánuðir, að enginn minntist á þær til neins, og höfðu þær þó gengið í kirkju tvisvar á hverjum sunnudegi, og setið í kirkjunni, þar sem allir hlutu að sjá þær, og fleygt stórum koparhlunkum í betli-diskinn, og heimsótt prestskonuna stöðugt tvisvar í viku, og sagt henni allar þær slúðursögur, sem þær gátu þefað upp, og allar sem þær höfðu búið til sjálfar; en allt kom fyrir ekkert. Ekkert nema þögn, endalaus þögn allan þann tíma.

Slíkt mátti ekki svo búið standa. Sómi og mannorð félagsins var í veði. Nú voru góð ráð dýr. Þá kom ein með þá tillögu, að félagið gengist fyrir samskotum til að gefa séra Long einhvern fagran grip til minja, sem þakklætisvott fyrir allt hans mikla og góða starf.

Þetta var samþykkt með öllum höndum, og ákveðið, að gjöfin skyldi vera vandað gullúr; og næstu daga þeyttust kvenfélagskjólar eins og fjaðrafokur um öll stræti, og fylltu vasana af peningum, mest frá karlmönnum, því þeim er ekki bannað að styrkja kvenfélög við svoleiðis tækifæri.

Og fáum dögum síðar sást presturinn með gullúrið og demantsnistið, og þakklætið kom af stólnum, eins og átti að vera; því var hnýtt eins og rúsínubúðing aftan í ræðu um elsku til sjálfra vor og náungans.

Það lá vel á kvenfélagskonum næstu daga á eftir. Það var auðheyrt, að þær höfðu fengið einhverja andlega hressingu af stólnum. Þær heimsóttu nú prestskonuna daglega, og drukku nú aldrei minna en tvo tebolla í einu, — því enskar kvenfélagskonur drekka te, en ekki kaffi.

Svona var nú gullúrið með nistinu til orðið. Vanalega

er það, að allt, sem frá kvenfélögum kemur, blessast vel; en þessu nisti fylgdi samt fremur lítil hamingja.

Atburður sá, sem hér skal frá skýra, bar til í desembermánuði. Það var blindhríð með stórviðri allan daginn, og varla fært fyrir hund úti. Þeir, sem voru svo ólánssamir að þurfa að vera á ferð, dúðuðu sig upp í loðkápur, og nærri huldu andlitin, og samt barði veðrið snjóinn svo framan í þá, að þeim lá við köfnun.

Í ljósaskiptunum um kveldið heyrðist mér vera barið hægt á bakdyrnar, og hélt ég þó fyrst, að það væri veðrið, og opnaði ekki. Var þá barið aftur, og harðara en fyrr. Lauk ég þá upp dyrunum og sá, að úti stóð drengur, sem leit út fyrir að vera 12—13 ára gamall.

Hann var í grárri treyju, sem hafði að líkindum einhverntíma verið ný, en var nú komin á efri aldur. Olnbogar drengsins stóðu út úr henni, og svo var hún hnappalaus, að hann gat varla haldið henni að sér. Hann hafði hendurnar í barmi sér og skalf af kulda.

Eftir nokkrar árangurslausar tilraunir að fá úr honum orð, gat ég komizt að því, að hann var hungraður, og bað að gefa sér að éta, og lofa sér að liggja inni um nóttina.

Með leyfi eldabuskunnar gekk hann inn í eldhúsið, og þar sagði hann okkur, hvernig á ferðum sínum stóð.

Hann kvaðst heita Pat, og vera írskur að ætt, og koma austan úr landi, og ætla til bróður síns, sem var bóndi vestur undir Klettafjöllum. Á leiðinni að austan hafði hann sofnað í vagninum, og þegar hann vaknaði, var búið að stela af honum því litla, sem hann átti, bæði af peningum, og eins handtösku með fötum í. Hann gat ekki haft upp á þjófnum, og af því hann var peningalaus, gat hann ekki komizt lengra, og varð svo að fara af vagninum; var hér alveg ókunnur, og hafði ráfað um bæinn allan daginn, þar til nú, að hann af handahófi rakst á þetta hús, og réð af að biðja um mat og gistingu.

„Heyrðu, Anna,“ sagði ég við eldabuskuna, þegar ég hafði heyrt sögu hans; „gefðu honum eitthvað að borða; hann er dauðhungraður, drengurinn.“

„Ég að gefa honum að éta. Ertu alveg frá þér? Hvað

ætli náðug frúin segði, ef ég tæki upp á því að gefa mat, hverjum sem kemur. Ég yrði óðara rekin úr vistinni."

„Farðu þá og biddu frúna leyfis að gefa honum að borða."

„Farðu sjálfur. Þú ert uppáhaldið hennar."

Ég sló í að fara. Náðug frúin sat inni í stofunni og stritaðist við að sitja. Ég sagði henni frá drengnum.

„Sagðir þú, að hann væri allur rifinn og illa klæddur?"

„Já."

„Og væri skjálfandi af kulda og hefði ekki bragðað mat í allan dag?"

„Já."

„Hann er náttúrlega þjófur, svona ganga þeir ævinlega til fara. Látast vera hungraðir og kaldir, svo þeim verði hleypt inn í húsin, þar sem þeir ætla sér að stela. Sagðir þú hann væri í eldhúsinu?"

„Já."

„Ekki veit ég, hvað hún Anna hugsar. Ég hef þó sagt henni að hleypa ekki flækingum inn í húsið. Allur bærinn er orðinn fullur af þessum skríl og flækingum, svo fólk má aldrei vera óhrætt um eignir sínar. Bæjarstjórnin ætti að hugsa meira um að vernda eignir manna en hún gerir, þá blómguðust ekki þessi fantafélög eins."

„En frú Long" — — —

„Þú mátt segja Önnu að láta hann fara strax út, og ef hún hleypi flækingum inn í húsið oftar, skuli hún verða rekin úr vistinni."

„En hann er skjálfandi af kulda."

„Já."

„Og hefir ekki bragðað þurrt eða vott í allan dag, og þekkir engan í bænum."

„Já, alveg rétt. Stendur heima. Þjófar eru alténd hungraðir og viltir og skjálfandi af kulda. Ég held ég þekki þá. Hann náttúrlega tilheyrir einhverju stóru þjófafélagi, og er nú að njósna um húsakynni, og stelur svo þegar minnst varir. Hann er nú líklega búinn að sjá silfurborðbúnaðinn minn."

„En má ekki gefa honum að borða?"

„Ertu alveg frá þér? Það væri synd að gera slíkum mönnum greiða. Ég gerði réttast í að hringja eftir lögregluþjóni, og láta setja strákinn inn. Og farðu nú og segðu Önnu að reka hann út."

Í sama bili opnuðust strætisdyrnar og séra Long með mági sínum kom inn. Þeir voru uppdúðaðir í dýrar og hlýjar loðkápur, og kenndu ekki kulda, hvernig sem vindurinn hamaðist og snjórinn barði þá utan.

„Heyrðu, góði minn," sagði frúin, þegar hún kom auga á mann sinn.

„Já, elskan mín."

„Ekki nema að stelpan hún Anna hefir hleypt einhverjum flæking inn í húsið, sjálfsagt þjóf. Og nú er drengurinn að biðja um mat handa honum."

„Hvað vill hann?"

„Þykist vera hungraður, villtur og skjálfandi. Þóttist hafa ætlað til bróður síns vestur í land, en öllu verið stolið af sér, og síðan hafi hann ráfað um bæinn og þekki engan mann."

„Hann er náttúrlega flækingur eða þjófur," sagði bróðir hennar. „Hvar er hann?"

„Fram í eldhúsi."

„*All right*. Ég skal gera honum fljót skil. Það er laglegt af bæjarstjórninni að líða þessum flækingum að flakka lausum um bæinn, og stela frá fólki. Þeir ættu, svei mér, ekki að vera kosnir í embætti næsta ár."

Með það fór hann fram, og við öll á eftir. Drengurinn sat fram við dyr, og brá hræðslusvip yfir andlit hans, þegar hann sá alla þessa hersingu koma.

„Farðu út," sagði prestsmágur og þreif í öxlina á honum; „við hýsum ekki flækinga hér."

„Eða þjófa bætti frúin við, en séra Long lagði ekki til málanna.

„Ég er ekki þjófur," sagði drengurinn kjökrandi; „og — ég — er — svo — svangur."

„Rétt trúleg saga. Eins og allir geti ekki haft nóg að éta. Þú náttúrlega tilheyrir einhverju þjófafélagi. Ég hef heyrt, að þau hafi stráka til að njósna fyrir sig, því þeir

haldi að fólk kenni fremur í brjósti um þá. En við vörum okkur. Farðu út."

„Mér er svo kalt," sagði drengurinn, og féllst alveg hugur við þessa harkalegu aðferð. „Mig — svíður — í fæturna."

Það var engin furða, þótt svo væri. Að hann skyldi ekki hafa kalið til stórskemmda úti í því frosti, var óskiljanlegt.

„Heyrðu, drengur minn!" sagði séra Long; „til hvers komstu hingað?"

„Ég vissi ekki, hvert ég átti að fara. Ég hef ráfað um allan bæinn í dag, og mér er svo kalt."

„En því fórstu ekki að einhverju öðru húsi?"

„Ég gerði það; en mér var alls staðar úthýst."

„Það sýnir, að fólk hefir ímugust á þér. Hvernig vitum við nema þú sért þjófur?"

„Æ, herra! Ég er ekki þjófur. Ég hef aldrei stolið eyrisvirði á ævi minni."

„Auðvitað er hann þjófur," greip náðug frúin fram í. „Engir aðrir en þjófar og letingjar ganga í rifnum druslum, og þykjast síhungraðir."

„Þú ert nú einn til frásagnar um það, að þú sért ekki þjófur," sagði séra Long. Og þó þú ekki sért þjófur, þá ertu samt betlari, og guðsorð segir, að húsgangar og betlarar eigi ekki mat að fá. Veiztu af því?"

„Já, ég veit það, herra. Hún amma mín las það í biblíunni."

„Og þó ertu að betla."

Drengurinn þagði og kreisti tárin í augunum. Nú var orðið dimmt, en snjókoman og illviðrið hið sama og áður.

„Þú ætlar þó ekki að fara að hýsa hann í nótt, elskan mín," sagði frúin, „og silfurborðbúnaðurinn minn hérna rétt við, í daglegu stofunni."

„Hm! Ég veit ekki. En að honum sé lofað að liggja hérna í eldhúsinu, og öllum útidyrum læst, svo hann komist ekki burt. Reyndar gerði ég réttast í að afhenda hann lögreglunni, en ég fæ mig einhvern veginn ekki til þess."

„Hamingjan góða," sagði frúin; „það held ég þér sé farið að segja fyrir, elskan mín. Ég er alveg viss um, að hann er útsendur af einhverju þjófapakki hérna í bænum.

„Auðvitað er hann þjófur," sagði bróðir hennar, „gengur í druslum og þykist hungraður og frosinn í gegn, svo fólk skuli kenna í brjósti um hann. Og svo þykist hann kunna í biblíunni. Ég held maður þekki þá, þessa fanta. Ganga með biblíuna í vasanum, eins og tóbaksplötur."

„Hm!" sagði sá djúpvitri aftur og starði út í myrkrið. „Ég veit ekki; ætli það sé ekki réttast að lofa honum að slettast hér í nótt?"

„Heyrðu, drengur minn! Ég ætla nú að sýna það manngæzkuverk á þér, að afhenda þig ekki lögreglunni, eins og annars á að gera við alla flækinga. Ég ætla að lofa þér að liggja inni í nótt. Heyrirðu það?"

„Já, þakka yður hjartanlega" —

„En ef þú stelur nokkru, skaltu sjálfan þig fyrir hitta. Ég skal loka öllum útidyrum, svo þú komist ekki burt."

„Æ, herra, ég stel engu."

„Ef þú stelur nokkru, þá ferðu í fangelsi. Heyrir þú það, í fangelsi? Anna! útvegaðu honum eitthvað að borða, og ljáðu honum svo eitthvað til að liggja við."

Með það fór allur skarinn burt. Náðug frúin tautaði eitthvað um silfurborðbúnað og þjófapakk um leið og hún fór út úr eldhúsinu.

Langt fram á nótt geisaði óveðrið úti, æddi eins og miðsvetrarhríðar geta verst ætt í þessu landi. Ef maður opnaði dyr, skall framan í mann moldviðris snjórokið. Hraðfréttaþræðirnir, sem þandir voru yfir strætinu, hvinu svo hátt, að heyrðist inn í hús, og nokkrum sinnum skullu á svo sterkar rokur, að húsið skalf eins og hrísla. Það voru fáir, sem voguðu sér út á strætin það kveld.

Nú hafði viljað svo til, að þremur dögum áður hafði nistið góða — menjagripurinn, sem átti að koma kvenfólkinu inn í himnaríki — bilað, svo það þurfti aðgerðar. Presturinn átti strák, þrevetran, einn af þessum ærslafullu strákum, sem alltaf þurfa að vera að gera eitthvað til ills. Presturinn hafði verið að leika við strákinn og hundinn á meðan verið var að láta mat á borðið; og strákurinn, sem þótti festin falleg, tók upp á því að toga í nistið, þar til það allt í

einu losnaði frá festinni, og hann skall á hnakkann ofan á gólfið þvert yfir hrygginn á hundinum.

Strákurinn orgaði. Hundurinn ýlfraði. Náðug frúin rak upp hljóð af hræðslu. Séra Long spratt upp og varð fyrst fyrir að ná nistinu góða, og skoða það. Jú, það var sem honum sýndist; það var gersamlega slitið frá festinni. Litli lásinn, sem læsti hvorttveggja saman, hafði alveg slitnað sundur, og þurfti aðgerðar.

Hann fór með hvorttveggja til gullsmiðs sama daginn. En þennan dag, sem drengurinn kom, hafði gullsmiðurinn skilað nistinu, og af því sá djúpvitri var ekki heima, tók frúin við því, og lagði það ofan á kommóðuna í daglegu stofunni, rétt hjá silfurborðbúnaðinum prestlega. En í þessum gauragangi, sem varð út af drengnum, hafði hún alveg gleymt að segja þeim djúpvitra frá því, að nistið væri komið til baka.

Svo leið af nóttin. Drengurinn svaf hjá hundinum fram í eldhúsinu. Um nóttina lægði storminn, og morguninn eftir var komið logn með brunahörku, eins og oft er eftir hríðar.

„Heyrðu, góði minn,“ sagði frúin, þegar þau kl. 9 um morguninn komu ofan í daglegu stofuna; „ég gleymdi alveg að segja þér frá því, að hann Ísak kom með nistið þitt í gær.“

„Nú jæja! Það var gott. Hvar er það?“

„Ég lagði það ofan á kommóðuna, — ég vænti að allt sé með kyrrum kjörum. Jú, kyrr er silfurborðbúnaðurinn minn. En — hvað — Jesús góður hjálpi mér, nistið er horfið!“

Allir þutu að kommóðunni. Menjagripurinn var horfinn, fannst hvergi, hvernig sem leitað var. En borðbúnaðurinn prestlegi var kyr, og engu öðru var raskað.

Náðug frúin sneri sér að manni sínum: „Hvað sagði ég þér í gærkveldi, að hlytist af því að hýsa þjófa? Hann hefir náttúrlega stolið nistinu. Hvað ætli frúrnar segi, þegar þær frétta það. Og nú er strákurinn líklega farinn, og búinn að selja það, og kominn með peningana til félaga sinna.“

Það bar ekki á neinu ferðasniði á stráknum. Hann svaf, eins og skata, hjá hundinum fram í eldhúsinu.

Ég minntist á það við náðuga frúna, hvort það gæti ekki

skeð, að nistið hefði hrokkið upp fyrir kommóðuna, og væri þar.

Hún var dregin fram og leitað, en árangurslaust. Nistið fannst hvergi.

Nú kom prestsmágur til sögunnar. Eftir að hafa heyrt allt, kvað hann upp sama dóm og systir hans, að drengurinn hefði stolið nistinu.

„Ég skal ýta við svíninu," sagði hann og fór fram, og allir á eftir.

„Komstu á lappirnar, kvikindið þitt, og skilaðu nistinu, sem þú stalst," sagði hann og setti fótinn harkalega í síðu hans.

Drengurinn hrökk upp við illan draum. Fyrst vissi hann ekki, hvar hann var staddur, svo áttaði hann sig.

„Skilaðu nistinu, sem þú stalst, þjófsanginn þinn," sagði prestsmágur og hristi hann til, „eða þú skalt verða hengdur."

„Ég — stolið. Ég hef ekki hreyft mig í alla nótt, eins og hundurinn veit."

„Víst hefir þú stolið," sagði prestur. „Þú hefir stolið dýru nisti, sem lá ofan á kommóðunni í daglegu stofunni. Viltu skila því með góðu, eða á ég að sækja lögregluþjón?"

„Það veit guð og heilagur Patrick, að — ég — hef — ekki — stolið — því," sagði drengurinn snöktandi; „ég hef sofið í alla nótt."

„Það er ekki til neins fyrir þig að bera af þér. Ekki hefir nistið farið sjálft. Það er búið að leita alls staðar. Veiztu, hver verða kjör þjófa og illræðismanna? Hér í lífi verða þeir hengdir, en á síðar munu þeir brenna í eldi og brennisteini, um alla eilífð, í augsýn vor hinna heilögu og lambsins."

Drengurinn svaraði engu, nema fór að gráta.

„Ég skal nú gera miskunnarverk á þér," hélt presturinn áfram. „Ég skal hlífa þér við hegningu, ef þú nú þegar skilar aftur nistinu og meðgengur synd þína og biður fyrirgefningar. Annars sendi ég eftir lögregluþjóni."

Drengurinn reyndi að stynja upp einhverjum orðum um það, að hann væri ekki sekur, en það heyrðist varla.

„Það er ekki til neins að þvæla þetta lengur," sagði prestsmágur; „ég fer og hringi eftir lögregluþjóni."

Og hann gerði það.

Lögregluþjónninn kom að vörmu spori, og séra Long afhenti honum drenginn, og kvaðst sjálfur mundi koma og ákæra hann, þá er réttur væri settur.

Svo fóru þeir báðir. Drengurinn var orðinn hálfringlaður, og vissi varla, hvað fram fór.

„Fimm dögum síðar átti að verða réttarhald. Sagan um nistisstuldinn flaug um nágrennið, og í tilefni af því urðu kvenfélagskonur af með marga tebolla, og mörg orð. — En *það* gerði þeim nú ekkert til, því hérlendar kvenfélagskonur eru eins og þessar ótæmandi uppsprettulindir á Íslandi, sem aldrei tæmast, þótt vatnsbuna standi úr þeim öld eftir öld — þær tæmast aldrei, þótt málanda-bunan renni stöðugt fram úr þeim, dag eftir dag, þær þurfa aldrei hvíldar, ekki einu sinni meðan þær drekka te — nei, orðastraumurinn rennur aldrei hraðara en þá, sérstaklega ef það er einhver ljúffeng, gómsæt slúðursaga, þá á það svo vel saman, að þær eins og hefjast allar á loft af ánægjunni, og þegar tebollinn er tómur, þá fara þær allar „út", og húsmóðirin ævinlega með, og þannig bætist ein við í hverju húsi, þar til félagið er allt komið „út", og alltaf rennur straumurinn, heyrist eins og stöðug, endalaus suða í býflugnabúi, sem aldrei þagnar, og heyri maður býflugnasuðuna álengdar, þá er ráðlegast að víkja úr vegi, reyndar stinga þær ekki, en þær hafa stundum sólhlífar, sem koma óþyrmilega við þann, sem er svo glannalegur að ætla sér að halda beint stryk í gegnum hópinn.

Daginn, sem réttarhaldið átti að fara fram, var gott veður. Allir úr húsinu fóru að hlýða á. Ég var sjálfsagður að keyra prestinn — nei, hestinn; en náðug frúin sat í vagninum uppdúðuð í selskinnskápu og kjassaði hundinn sinn.

Það sem fram fór inni í dómsalnum þann dag vakir eins skýrt fyrir mér nú, eins og það hefði farið fram í gær. Dómarinn, gamall og gráhærður — ég segi gráhærður, en sá þó aldrei hár hans, því hann hafði „parryk" ofan á axlir — sat fyrir stafni í háum stól, með stórt borð fyrir framan sig, með ósköpum af bókum, skjölum og blöðum, haugað upp í fjöll, strýtur, hálsa og hæðir, en svo voru á milli dalir og gígir. En til hægri handar sat lögmaður prestsins með bláa

kápu yfir sér, og framan á andlitinu hafði hann eitt af þessum stóru, óskapa nefjum, sem ýmist eru kölluð hrútsnef eða kónganef. Ég ætla að kalla það hrútsnef, því hrúta hef ég séð, en konunga aldrei, nema það sem ég hef ímyndað mér, hafi ég séð einhvern stóran og virðingarverðan hrút, að þar sæi ég konung. Og sá sprenglærði með hrútsnefið konunglega sat og leit yfir allan hópinn, með segðu — mér — eitthvað — sem — ég — veit — ekki svip, og hann gaut hornauga til mótstöðumanns síns, sem sat hinum megin á pallinum, eins og hann vildi segja: „Þykist þú mér jafnsnjall?“ En það var ekkert útlit fyrir, að hann þættist vera það, því hann húkti áfram, eins og hann langaði til að hverfa ofan í sjálfan sig, niður fyrir neðsta skilningarvit.

Séra Long var fyrsta vitnið, og hann sagði söguna um komu drengsins, eins og hún var. Síðan sagði hann frá nistinu, sem daginn áður hafði verið lagt á kommóðuna í næstu stofu, og horfið um nóttina. Honum sagðist vel, og þegar hann hætti að tala, var það auðséð, að allir álitu drenginn sekan.

Náðug frúin var næsta vitnið. Hún sagði sömu söguna um komu drengsins, og ennþá nákvæmar frá nistinu, hvar það hefði legið, og hvernig það hefði legið, og hún kvaðst sannfærð um það fyrir guði, að drengurinn hefði stolið því.

Eldabuskan var einnig yfirheyrð, og hún sagði frá því, að hún hefði séð frúna taka við nistinu nálægt kl. 4 daginn áður, og leggja það á kommóðuna.

Þegar búið var að yfirheyra vitnin, þaut í hrútsnefinu konunglega, og eigandi þess tók til máls. Hann komst skjótt að þeirri niðurstöðu, að hér væri um stuld að ræða. Jafnvandaður og guðelskandi maður og séra Long væri, hefði ekki farið að ákæra drenginn, nema að hann væri viss um sekt hans. Hann hafði þekkt frúna í mörg ár, og hann vissi, að guðhræddari og hjálpsamari kona var ekki til í öllum bænum. Hann kvað sér vera illa við alla glæpamenn, en verst væri sér við þjófa. En þjófnaður sá, er hér væri um að ræða, væri svo argvítugur, og bæri vott um svo mikla forherðingu og vanþakklæti, að hann óskaði, að dómnefndin tæki sérstakt tillit til þess. Hin brjóstgóðu og greiðviknu

hjón hefðu opnað með ánægju hús sitt fyrir hinum unga syndara, sem hafði komið til þeirra, og þótzt vera hungraður, nakinn og kaldur. Þau hefðu satt hungur hans, léð honum gott rúm að hvílast í, og síðan launar hann þeim á þann hátt, að um miðja nótt fer hann á fætur, og stelur dýrindis menjagrip, sem presturinn á, heiðursgjöf frá hinum starfsömu, kristnu konum í söfnuði hans. Allur þjófnaður ætti hegningu skilið, en sá þjófnaður, sem hér væri um að ræða, ætti skilið tvöfalda hegningu; lög landsins ættu að taka í strenginn og stöðva þessa ungu glæpamenn, og koma þeim þangað, sem ærlegir menn mættu vera óhræddir fyrir þeim. Glæpirnir væru hegningarverðir, en þó margfalt fremur hjá hinum ungu, er af sjálfsdáðum legðust í slíkan ólifnað.

Þegar hætti að þjóta í hrútsnefinu stóð lögmaður drengsins upp.

„Með yðar leyfi, herra dómari, langar mig til að spyrja minn hálærða bróður að einni spurningu: „Var leitað á drengnum, hvort hann hafði nistið á sér?“

Jú, það hafði verið gert, en ekki fundizt.

„Og hvernig í ósköpunum átti hann þá að hafa stolið nistinu? Hann hafði ekkert tækifæri til að fara með það burt úr húsinu. Hvað heldur minn hálærði bróðir, að hann hafi gert við það?“

Sá sprenglærði ýtti „lorgnettinu“ lengra upp eftir hrútsnefinu konunglega, og leit með aumkunarblandinni fyrirlitningu á mótstöðumann sinn.

„Hvað *held* ég hann hafi gert við það? Ég *held* ekkert um það. Ég *veit* það. Hann hefir auðvitað gleypt það. Heyrið þér það! *Gleypt* það. Rétt eins og ég viti ekki, hvernig þessir þjófar hafa það, sem gleypa allt, sem þeir stela. Náðug frúin segir mér, að það hafi verið mesta mildi, að hann fór ekki með silfurborðbúnaðinn hennar líka. Ég þekkti einu sinni þjóf, sem var svo slunginn, að hann gat gleypt heilan hest. Ég segi yður sannleikann, herrar mínir, þér vitið það allir, að *ég* lýg aldrei.“

Lotning og aðdáun fyrir þessum mikla lögfræðing skein út úr andlitum allra. Ekki varð frekara af vörn á drengsins

hlið. Það var engin mynd á því, enda var þar ekki fyrir neinum peningum að vinna. Lögmaður hans hafði aðeins verið settur til málamynda.

Þar eð allar upplýsingar voru komnar fram í málinu, skipaði dómarinn dómnefndinni að fara út og yfirvega málið.

Meðan á því stóð bað séra Long sér hljóðs. Hann kvaðst finna það skyldu sína að skýra frekar framkomu sína í þessu máli. Hann kvaðst hafa gefið drenginn í hendur laganna, en hann hefði gert það eftir nákvæma umhugsun og mikla baráttu við sjálfan sig. Það væri sín regla, í hverju sem hann tæki sér fyrir hendur, að hafa guð og hans heilaga orð ætíð fyrir augum sér. En af því hér gæti ekki verið um nokkurn efa að ræða, þá hefði hann fundið sig knúðan til að hegna drengnum. Sem drottins þjónn fyndi hann það skyldu sína að uppræta af fremsta megni illgresið úr hans akri, áður en það næði að eyðileggja hveitið. Hér væri um verulegt illgresi í akri drottins að ræða, þar sem þessi drengur væri. Glæpirnir væru hryllilegir hjá öllum, en tvöfalt hryllilegri, þegar maður sæi ungdóminn liggja í þeim. Hann kvaðst vita fyrir samvizku sinni, að viðvíkjandi þessum dreng hefði hann ekki gert annað en það, sem væri samkvæmt guðs og manna lögum. Hefði hann hlíft honum, þá hefði hann gert öðrum rangt, því drengurinn mundi hafa haldið áfram sinni glæpsamlegu atvinnu. Ennfremur kvaðst hann vilja taka það fram, að hefði hann látið málið falla niður, þá hefði hann sýnt stakt vanþakklæti við hinar góðu konur í söfnuði sínum. Þær hefðu gefið sér grip þennan til viðurkenningar fyrir starf það, sem hann í mörg ár með veikum mætti hefði verið að reyna að vinna meðal þeirra í ótta drottins. Hann kvaðst ekki hirða um dýrgripi eða auð þessa heims, en í hvert skipti, sem hann hefði litið á minjagrip þann, er nú væri tapaður, hefði hann fundið til ánægju með sjálfum sér, því hann vissi, að gripur sá var viðurkenning fyrir hans margra ára trúa en erfiða starf.

Hafi nokkrir verið inni í dómsalnum, sem efuðust um sekt drengsins, þá hlaut þeim að snúast hugur við slíka ræðu.

Hver er sá, sem dirfist að mótmæla drottins þjóni, þegar hann talar í jafnauðmjúkum og kristilegum anda?

Nú kom dómnefndin aftur.

„Hafið þið allir orðið á eitt sáttir í máli þessu?“ spurði dómarinn.

„Yðar tign, já.“

„Og úrskurður yðar er — — — — —“

„Sekur.“

Því munu fáir trúa, en satt er það þó, að það varð steinþögn í dómsalnum um nokkur augnablik — jafnvel kvenfélagsbýflugnasuðan heyrðist ekki, — en það var ekki nema augnablik, suðan byrjaði von bráðar.

Svo stóð dómarinn upp. Hann kvaðst ætla að vera vægur við hinn unga glæpamann, þar eð þetta væri að öllum líkindum hið fyrsta brot hans. Hann kvaðst líka vilja geta þess, að hefði einhver annar en séra Long verið ákærandi, þá hefði hann látið í ljósi óánægju sína með sannanir þær, er fram hefðu komið í málinu. Hinn ákærði væri hegningarverður fyrir tvennt: fyrir þjófnað og fyrir betl. Hann kvaðst aðeins ætla að dæma hann í sex mánaða fangelsi fyrir þjófnað og tveggja mánaða fangelsi fyrir betl, og hann vonaði, að hinn ákærði léti sér þetta að kenningu verða og syndgaði ekki framar.

Meðan réttarhaldið stóð yfir, hafði drengurinn verið kæringarlaus fyrir öllu, sem fram fór, eins og hann tæki ekki eftir neinu. En þegar dómurinn var upp kveðinn brá honum verulega. En hann talaði samt engin stóryrði og heitaðist ekki við fjandmenn sína. Hann gerði aðeins það, sem margir óharðnaðir unglingar hefðu gert í hans sporum. Hann brast í grát og veinaði: „Mamma! Mamma!“ eins og ungbarn, sem tekið er nauðugt frá móður sinni.



Það er sagt, að í gamla daga hafi verið siður hjá heiðarlegum íslenzkum bændum að lofa krökkunum að ólmast og láta öllum illum látum alla föstuna, og hýða þau síðan ærlega á föstudaginn langa. Hérlenda „fína“ fólkið fer nokkuð líkt að með gólfteppin sín. Það lætur safnast í þau ryk og

dust allt árið, en einhvern góðan veðurdag að vorinu rífur það þau upp og ber þau eins og harðfisk; ber úr þeim allt syndarykið, sem hefir safnazt í þau á árinu. Náðug frúin fylgdi sömu reglu. Einn góðan dag um vorið var kommóðan, legubekkurinn og stóllinn drifin veg allrar veraldar út um dyr; gólfteppið var rifið upp til að gefa því ærlega, íslenzka langafrjádagsráðningu.

En út við vegginn, þar sem kommóðan hafði staðið, lá nistið rétt undir brúninni á gólfteppinu. Það hafði auðsjáanlega dottið upp af kommóðunni, og þokast svo inn undir brúnina á gólfteppinu, þegar verið var að ýta henni til.

Frúnni varð ekkert nema hún sagði: *„My goodness!“*

Svo tók hún nistið og skoðaði. Demantarnir voru allir og glóðu, eins og þeir áttu að sér. Drengurinn hafði ekki gleypt einn einasta.

Í því kom maður hennar inn.

„Heyrðu góði minn!“ sagði frúin, „ekki nema að nistið þitt er fundið, það lá undir brúninni á gólfteppinu fyrir ofan kommóðuna.“

Hann settist niður, tók við og skoðaði.

Svo varð löng þögn. En honum var ekki rótt. Hann var að mjaka sér til í sætinu, eins og einhver væri að kitla hann; loks leit hann upp.

„Hvernig gátum við vitað það?“

„Já, hvernig gátum við vitað það?“

Svo varð aftur þögn.

Og frúin tók hundinn upp af gólfinu og kyssti hann og stakk upp í hann sykur mola og sagði hann væri allra elskulegasti hundur. Og hundurinn dinglaði rófunni og sleikti hana í framan, og presturinn sat í guðrækilegum hugleiðinum og handlék demantsnistið sitt.

---

# Dæmisögur

I.

## Konuástin

Þau voru búin að lifa saman í heilögu hjónabandi nokkur ár, þegar þau vöknuðu bæði við það eina nótt, að Dauðinn stóð við hvílu þeirra. „Komdu," sagði Dauðinn og snart manninn með ískaldri hendinni; „ ég var sendur að sækja þig."

„Æ, náðugi herra Dauði," sagði maðurinn skjálfandi af hræðslu; „ég get ómögulega farið; ég er aðeins fyrir fáum dögum búinn að festa kaup á bæjarlóð, sem ég vona að græða stórfé á. Hvað ætli verði líka um börnin mín þrjú, ef mín missir við?"

„Varðar ekkert um það," sagði Dauðinn; „þú verður að koma."

„Æ, lofið manninum mínum að lifa í guðs nafni," sagði konan, „og takið mig heldur; annars fara börnin okkar á vonarvöl."

„Hann er nýbúinn að taka 3000 dollar ábyrgð á lífi sínu. Börnum þínum er borgið," sagði Dauðinn.

Nei, herra Dauði, hvað eru 3000 dollarar á móti hans föðurlegu umhyggju, nema ekkert; gerið það fyrir mig að lofa mér heldur að deyja, en manninum mínum að lifa, því þá veit ég, að börnunum mínum er borgið."

Dauðinn hugsaði sig um fá augnablik.

„Jæja, svo skal þá vera, sem þú biður," sagði hann. „Ástin er hið eina afl, sem ég beygi mig fyrir. Ykkur konunum skjátlast þó hraparlega, þegar þið elskið og viljið láta lífið fyrir karlmanna óþokka, og blindið sjálfar ykkur fyrir göllum þeirra; en fyrst þú ert fús á að láta líf þitt fyrir mann þinn, þá komdu, því ég bíð nú ekki lengur."

Konan stóð upp, kyssti mann sinn og börn og bjóst til ferðar með Dauðanum.

„Æ, heyrðu góða mín," sagði maðurinn, og vafði fastar að sér rekkjuvoðunum, „vænt þætti mér um, ef þú vildir lífga eldinn í ofninum um leið og þú ferð, því ég kvíði fyrir að klæða mig á morgun ofan í þennan kulda. . . . ."

II.

## Góðsami maðurinn

Það var einn dag um miðsumarleytið að hann í fyrsta skipti kom inn í borgina. Hann hafði reyndar í eitt ár búið aðeins tólf mílur frá henni, en aldrei haft ástæðu til að ferðast þangað fyrr en nú, að hann lagði af stað með tíu dollara í vasanum til að festa kaup í uppskeruvél, því akrarnir hjá honum stóðu í miklum blóma. Og þegar hann kom inn í borgina, sá hann mann sem sat á strætinu og lék á hljóðfæri, og hjá honum var hundur, sem hélt á tinbolla í kjaftinum og dinglaði rófunni, og leit vonaraugum á hvern, sem fram hjá fór.

„Aumingja maðurinn," hugsaði góðsami bóndinn, „hann er sjálfsagt heilsulaus," og hann lét einn dollar í tinbollann og hélt svo áfram.

Hann hafði skammt farið þegar hann mætti konu, sem hélt á barni í fanginu, og var mjög fátæklega til fara.

„Gefið mér fáein cent í guðs nafni," sagði hún; „ég hef ekki bragðað þurrt eða vott í tvo daga."

Maðurinn komst við af þessu, gaf henni dollar, og konan bað guð að blessa hann og hélt svo áfram.

Spölkorn þaðan kom hann að, þar sem prestur var að halda ræðu fyrir fjölda fólks úti á opnu stræti. Hann skoraði á alla, sem viðstaddir voru, að leggja nú hver sinn skerf til hjálpar hinu nauðlíðandi fólki í Armeníu, og útmálaði neyð þeirra og vandræði með svo átakanlegum orðum, að flestir urðu hrifnir. Presturinn endaði ræðu sína með þeim orðum, að svo framarlega sem menn vildu kristnir heita, svo framarlega, sem menn vildu eiga vísa vist í faðmi Abrahams eftir dauðann, þá skyldu menn nú hjálpa þessu

nauðstadda fólki. Svo var gengið um með betlidiskana, og flestir gáfu eitthvað, sumir rausnarlega. Og þegar góðsami maðurinn sá, að sá, sem stóð honum næstur, gaf fimm dollara, þá fannst honum hann verða að gefa rausnarlega líka, og gaf þrjá dollara. Svo gekk hann þaðan. Dollararnir hans voru reyndar farnir að týna tölunni, en honum var létt um hjartaræturnar. Hann hélt svo áfram og stefndi inn að aðalmarkaði bæjarins. Nærri að segja við hvert fótmál mætti honum einhver þurfamaður. Sumt voru aldraðir menn, sem ekki gátu lengur unnið sér brauð, skinhoraðir og illa klæddir, sumir voru blindir, aðrir höfðu misst hendur eða fætur, og enn voru sumt börn, sem ráfuðu hungruð um strætin og báðu um ölmusu. Góðsami bóndinn sá hópa af tígulega búnum körlum og konum ganga fram hjá þessu fólki, án þess að virða það viðlits, en við það „upptendraðist" reiði hans, og hann tók sárara til þessa auma fólks en áður. Og hann gaf á báðar hendur, fáein cent í stað, og gætti þess ekki, að hans litli fjársjóður þverraði óðum. Og við hvert cent, sem hann gaf, jókst ánægja hans og rósemi; honum fannst hann vera ríkur, honum fannst hann sjálfur einskis með þurfa.

Svo kom hann að strætishorni. Þar sat blindur maður, og sneri hljóðfærakassa. Hjá honum var tréspjald og á það var prentað, að maður þessi hefði misst sjón, heyrn og mál við púðursprengingu; til þess að vekja enn betur meðaumkvun manna, var á spjaldinu mynd af atburði þessum, þar sem púðrið sprakk rétt upp í andlitið á manninum. Góðsami maðurinn þreifaði í vasa sinn. Hann átti eftir tveggja dollara seðil. „Ekki má ég gefa það allt," hugsaði hann, „ég kann að mæta öðrum bágstöddum manni, og svo þarf ég eitthvað að nærast á í dag, en með uppskeruvélina — ja, hún má eiga sig í þetta skipti." Þá sá hann, að blindi maðurinn hafði mikið af smáum silfurpeningum á diski hjá sér, svo hann ásetti sér að taka einn dollar úr silfri úr diskinum, og láta einn tveggja dollara seðil í staðinn. En þegar hann rétti hönd sína eftir silfrinu, greip mállausi og blindi maðurinn um hönd hans, og æpti:

„Þjófur! þjófur!"

Tveir menn, sem voru nærstaddir, hlupu þegar til og tóku bóndann, og hvernig sem hann reyndi að sannfæra þá um það, að hann hefði aðeins ætlað að skipta pening til að geta gefið manninum dollar, þá trúðu þeir betur sögu blinda mannsins, að hann hefði ætlað að stela frá sér. Tveggjadollaraseðilinn sagðist hann eiga líka með öllum rétti.

Og áður en hann varði, var hann tekinn og fluttur af tveimur lögregluþjónum, innan um fjölda af strákaskríl, áleiðis til næsta dómsals. Á leiðinni var hann atyrtur og kallaður öllum illum nöfnum af skrílnum, og þó hann vildi tala við lögregluþjónana, gegndu þeir honum engu. Fyrir réttinum var hann ákærður fyrir að hafa ætlað að stela frá einum heiðarlegum þurfamanni bæjarins. Það var árangurslaust, þótt hann reyndi að réttlæta sig, og segði sögu sína, að hann hefði komið til bæjarins með tíu dollara í vasanum til að festa með kaup í uppskeruvél, en gefið þá alla til fátækra. Dómarinn og þeir, sem viðstaddir voru, brostu að slíkri sögu og álitu hann hinn mesta erkilygara í borginni. Að hugsa sér nokkurn mann svo brjóstgóðan, að gefa allt, sem hann hafði, til fátækra, það fannst þeim jafnmikil fjarstæða eins og ef einhver hefði sagt þeim, að þeir væru ekki beztu mennirnir í borginni. Hafði hinn ákærði nokkra peninga nú? Nei, enga. Þá var hann líka flækingur, og það eitt var nægileg sök á hendur honum, en svo þegar það bættist ofan á, að hann hafði reynt að sela, þá leiddi af sjálfu sér, að hann hlaut að sæta refsingu.

Eftir nokkrar málalengingar dæmdi dómarinn hann til að greiða hinu opinbera 12 dollara eða fjögra daga fangelsi og vera að því búnu rekinn úr bænum sem flækingur. Og af því hann hafði ekki peninga til að borga með sektina, þá varð hann að sætta sig við fangelsi í fjóra daga, og fékk þannig næði og nægan tíma til að íhuga með sjálfum sér, hvernig heimurinn launar velgerðir.

III.

## Öfundsýkin

Á búgarði einum var stór hópur af hænsnum. Meðal þeirra var hani einn, sem hafði það fram yfir aðra hana, að á höfði hans var tvöfaldur kambur. Honum fannst svo mikið um þessa tvöföldu, rauðu kórónu sína, að hann áleit það sjálfsagt, að hann ætti að vera konungur yfir öllum hænsnahópnum. Hænurnar töldu honum líka trú um að svo væri, því þær voru allar bráðskotnar í rauðu kórónunni. Reyndar vildi það til stundum, að einhver gáskafullur og metnaðargjarn hani gat ekki sætt sig við að vera undirlægja hanans með tvöföldu kórónuna, og þóttist sjálfur vera eins hæfur til að vera konungur, en sú máldeila endaði ætíð með því, að málsaðilar börðust með nefi og klóm um yfirráðin, og ef hænurnar sáu, að konungur þeirra ætlaði að bíða ósigur, hjálpuðu þær honum, og leikurinn endaði ætíð svo, að óeirðarseggurinn lagði á flótta, fjaðralaus og blóðugur. Og á endanum hættu allir að ýfast við hanann með tvöfalda kambinn, og hann sat einvaldur í tign sinni. Þegar hann galaði, fór hann ætíð upp á taðhauginn, þar sem hann var hæstur, og teygði úr hálsinum, eins og hann gat, svo allir sæju sem bezt kórónu hans. Hann var duglegri en allir hanar í að róta sundur mykjunni, og alla stærstu og digrustu ormana áskildi hann sér til að færa þá vildarhænum sínum. Og þegar hann hafði um langan tíma setið í þessari tign sinni, þá bar svo til, að ein hænan ungaði út nokkrum eggjum, og einn unginn var undur fallegur hani með gullslitaðan fjaðraham og tvöfalda kórónu á höfðinu. „Lítið á,“ sagði móðir hans við hinar hænurnar. „Þessi hani verður fallegri en gamli haninn okkar. Skoðið þið tvöfalda kambinn á höfði hans og gullna fjaðrahaminn hans.“ „Svei,“ sögðu hinar hænurnar, sá held ég verði kóngur,“ og fóru svo og sögðu gamla hananum frá, að ungi haninn þættist honum jafnsnjall, eða meiri. „Það skal reynt verða,“ sagði hann og flaug þangað, sem litli haninn var, og réðist þegar á hann með nefni og klóm, en allar hænurnar horfðu á. Ungi haninn veitti fyrst viðnám, en varð brátt ofurliði

borinn og flýði. Gamli haninn fór upp á taðhauginn, barði vængjunum og galaði þrisvar eftir unninn sigur. „Heldur er hann tignarlegur þessi," sagði hann háðslega og leit til unga hanans, sem hann hafði slitið af hverja fjöður, og tætt í sundur á tvöfalda kambinn; „sá held ég verði kóngur," og hann galaði aftur af ánægju. „Í þetta skipti hefir þú borið hærri hlut," sagði litli haninn, „og leikið mig hraklega. En þó þú hafir skemmt minn gullna ham, og tætt í sundur kambinn á höfði mér, þá mun hvorttveggja aftur vaxa og verða fegurra en áður, því eðli mínu færð þú ekki raskað. Skal ég nú muna þér viðureignina í dag. Sá er munur á okkur, að þú hefir nú lifað hið fegursta af ævi þinni, og náð allri þeirri virðingu, sem þú munt ná, en ég hef alla ævina fyrir framan mig, og hún er eins björt og skínandi, eins og fagri hamurinn minn var, sem þú spilltir fyrir mér."

---

# Efnisyfirlit

